# SVAVA.

# ÝMISLEG KVÆÐI

EPTIR

BENEDIKT GRÖNDAL, GÍSLA BRYNJÚLFSSON,
STEINGRÍM THORSTEINSON.



KAUPMANNAHÖFN.

Á KOSTNAÐ PÁLS SVEINSSONAR.

PRENTAÐ HJÁ LOUIS KLEIN.

1860.

# Formáli.

Vèr ætlum oss ei að rita lángan formála fyrir kvæðum þeim, sem vèr, er á titilblaðinu stöndum, höfum tekið oss saman um að gefa út í sameiníngu. Sum af þeim eru gömul og fyrir löngu ort, en önnur ný; og verða þau að bera sinn dóm með sèr. En þess eins viljum vèr þó biðja lesendur að gæta vandlega, að skáldskapur verður æfinlega skáldskapur, og álykta því ei um of um hugarfar höfundanna frá því, sem þeir kunna að hafa hugsað og fundið til eina stund.

Að öðru leiti* þurfum vèr aðeins að gjöra nokkrar athugasemdir viðvíkjandi fyrsta kvæðinu, því við því er að búast að ýmsir kunni að misskilja það, og, ef til vill, einkum þykja það nú koma

* Eg nota hèr tækifærið til þess að geta þess, að eg hefi lengi með ásettu ráði ritað þetta orð svona, en ei með y, sem flestir nú. Þeir, sem fyrst hófu að rita orðið með y, drógu leyti af laut, og væri þá ritshátturinn rèttur; en sú afleiðsla er hèrumbil eins og „lucus a non lucendo,“

í ótíma, þar sem friður og spekt sè aptur ákomin um allan heim. En þá er þess að geta, að þetta kvæði var og upprunalega ætlað til prentunar í „Nýjum Fèlagsritum“ í fyrra, um það leiti er Napóleon keisari hóf hið ítalska stríð og hèt að brjóta niður og eyða hinu illa ríki Austurríkismanna, sem lengi hefir verið allri Norðurálfunni, og einkum þjóðverjum, til skammar og skaða — en það fórst þá fyrir sökum fjærveru höfundarins, og getum vèr ei heldur sèð, að það eigi enn svo illa við. því hvert er nú í raun og veru ástandið í Norðurálfunni; eða er það ei aptur orðið hèr um bil eins og í fyrra um þetta leiti; og búast menn ei alltaf enn við stórkostlegum byltingum og breytingum til hins betra í flestum löndum? það er að vísu bágt, ef sumum kunna að hafa brugðist beztu vonir um það, að hin gamla vesalmennska, er að völdum hefir setið á meginlandinu síðan 1815, mundi nú aptur komast í hávegu, af því að Napóleon keisari var svo vægur við Austurríki í friðarskilmálunum; en við þessu verður ekki gjört, og svo er nú enn að sjá aptur, sem betur fer, sem allur sá argskapur liggi nú þegar í andarslitrunum.

---

og orðið kemur miklu fremur af að „líta“ (smbr. „tillit“), hvort sem það heldur er haft i þeirri merkingu sem hèr, eða þá um hól eða hæð, sem víða má líta ofan af. Verður því og aðeins rètt að rita æfinlega leiti, en ei leyti, sem er misskilin nýbreyting.

Síðan ríki Rómverja fèll í Norðurálfunni, hafa aðeins tvö þjóðríki skarað fram úr á alla vegu, eptir að ríkjaskipan var aptur komin þar í það horf, sem hún síðan hefir haldist í jafnan. En þessi ríki eru Bretland hið mikla með Írlandi og Frakkland, og þeim hafa allar aðrar þjóðir fylgt í flestu og látið þau ráða stefnunni; því þó Þýzkaland hafi mjög svo skarað fram úr í vísindum og fræðum á þessari öld, þá er þó enn sem fyrr, að ríkisstjórn hefir aldrei farið þar með feldi; og hamlar það öllu svo mjög þar í landi, að fólkið getur aldrei fundið til sín sem sannrar heildar, eða komið fram á þann hátt sem þjóð fyrir sig, að hún láti nokkuð til sín taka. Til Frakklands og Englands fluttist og fyrir löngu síðan flest það, er bezt var á Þýzkalandi og á Norðurlöndum; og, ef satt skal segja, þá eru nú Frakkar og Englendíngar miklu líkari þeim mönnum, sem vèr enn dáumst mest að í sögum vorum og fornkvæðum, heldur enn allar aðrar þjóðir, þó bæði Norðurlandabúar og Þjóðverjar kunni að hafa haldið nokkru meira eptir af því máli, sem hinir töluðu — því rèttu hafa þó öngvir haldið því, nema Íslendíngar einir, og meira eða minna gjörir þá mjög svo lítið til um slíkt, ur því allur andinn annars er farinn. Frakkar eru enn hermenn miklir, eins og fornir víkíngar, og Englendíngar eru, eða hafa að minnsta kosti híngað til verið, spakir um alla landstjórn, eins og fornir lögrèttumenn; svo að ef menn taka saman atgjörvi beggja þjóða, þá koma fram menn, sem að öllu gánga næst hinum

fornu norrænu mönnum, er áður einnig bygðu Ísland, ekki beinlínis frá Noregi, en einkum „vestan um haf“. Getum vèr því og með öngu móti verið þeim samdóma, sem vilja gjöra svo mikin mun á „rómönskum“ þjóðum, sem þeir kalla, og „germönskum“, að minnsta kosti ei hvað Frakka snertir, heldur vildum vèr miklu fremur aðeins greina milli austrænnar og vestrænnar stefnu; og má það nú vera auðsætt hve eðlilegt það þá æfinlega verður að vera oss, að halda heldur með hinni síðari, enn hinni fyrri. Því, ef satt skal segja, þá getum vèr ei annað sèð, enn að hún sè hið einasta rètta áframhald af því hinu stórkostlega lífi, er hófst um alla Norðurálfuna eptir fall hins rómverska ríkis, og sem hinir fornu Íslendíngar að sínu leiti áttu ei svo lítin þátt í.

Það er og æfinlega eðlilegast að þeir stýri, sem lengst eru komnir, og af öllum tilraunum til annars getur aldrei hlotizt nema illt eitt, eins og nú líka hefir sýnt sig í Norðuralfunni, síðan 1815. Því þá var nú mikið um að vera þar austur frá, og keisarar tveir og konúngur einn í löndum, sem alls öngan rètt hafa í ágæti sjálfra sín til þess að gjörast oddvitar annarra þjóða, meðan Frakkland og England eru enn svo sem þau eru, þóttust nú svo sem ætla að taka við stjórninni eptir fráfall hins gamla Napóleons, og skyldi Metternich setja þau „vèsköp, sem vera skyldu“. En hver varð annar árángurinn, enn sá, að dofnun og dauði hafa síðan ríkt, sem við var að búast, þegar eptirbátarnir

ætluðu sèr að gjörast forustuskip? Rússar, Prússar og Austurríkismenn kunna vel að vera, og eru víst, góðir, hver á sínum stað, en það er þeim enn ofráð, að reyna til að stýra Norðurálfunni „að sínum munum", og þess bað þá heldur enginn: til þess eru þeir sjálfir enn of háðir Frökkum og Englendíngum í allri atgjörvi sinni, og sèr það og hver, að það er allt öfugt þegar þeir vilja reyna að stýra, sem sjálfir þurfa taumsins með. Slík stjórn verður því og æfinlega annað hvort að verða að amlóðaskap eða kúgan, þar sem stjórnendurnir, sem sjálfir ekkert komast, neyðast til að reyna þá að halda öllum öðrum aptur líka — og til þessa var líka reynt í Norðurálfunni um meir enn þrjátíu ár eptir 1815, og skorti þó ei heldur þá, sem kölluðu slíkt hina mestu stjórnspeki. En, ef rètt skal herma, þá var þetta ástand þó öngu líkara enn því, sem svo snillilega er sagt frá í Heimskrínglu, um Eystein konúng hinn illa, er hann gjörði mörg undur við þrændi, og setti meðal annars hundinn Saur yfir þá til konúngs; en þeir lètu seiða í hann mannsvit, svo hann talaði þriðja hvert orð, en gó annars sem optast. Slíkt var ríki Metternichs og hans fèlaga, en Nikulás Rússa keisari var Ögmundr flóki í því liði, og þó heldur verri enn Ögmundr; og þetta ríki stóð nú um lángan aldur, þessa kumpána dýrkuðu menn í meir enn þrjátíu ár frá Rínarósi og austur til Tattara, og þýzkir heimspekíngar sönnuðu það, að þeirra stjórn væri hin bezta, sem hugsast gæti. Og svo var jafnvel að sjá

um stundar sakir sem þeir mundu magnast aptur eptir 1848, svo að menn máttu hreint örvænta um Frakkland, rètt eins og það væri dautt úr öllum æðum; því Englendíngum hefir, því miður, lengi mátt leggja það til hnjóðs, og það því fremur sem þeir annars standa fremst í öllu frelsi heima hjá sjálfum sèr, að þeir styddu aðeins þá, sem þeim sjálfum væru mótsnúnastir, með afskiptaleysi sínu: því, hver sem ei er með mèr, hann er á moti mèr. En, sem betur fór, hefir nú ræzt öðruvísi úr öllu, enn einu sinni áhorfðist, svo vestrænir menn lúta nú ei lengur hundinum Saur, en eru nú aptur þar í broddi fylkíngar, sem þeir eiga að vera; og er það Napóleon keisara hinum þriðja mest að þakka, þó hann færi fyrst að láta til sín taka nokkuð seint. En því fremur mega menn þá og treysta því, að hann muni ei hætta við svo búið, hversu leynd og undarleg sem aðferð hans svo stundum kann að sýnast; því það er nú orðið auðsætt af því, sem híngað til hefir komið fram, að hin eiginlega hugsun hans verður þó æfinlega að vera sú, að þeir Ögmundr og fèlagar hans hafi gjört sèr of mikið til móðs, til þess að þeir nokkurn tíma megi sættast heilum sáttum. Og á því, að það ei verði, er og ríki hans bygt.

En hversu sem svo það er, þá höfum vèr nú sagt skoðun vora, og er það eðlilegt að það komi fram á ýmsan hátt, sem svo ríkt liggur í tímanum; því vèr getum ei annað enn glaðst yfir hverju því, sem heldur færist í lag, eins og nú lítur út

fyrir um svo mart. Hinu „heilaga“ sambandi konúngs og keisara er nú loks siltið með öllu; sú hin arma stjórn er gjörsamlega að eyðast og falla, er svo var illa stofnuð, að menn vissu ei dæmi „til heimsku harðræðis í heimi þessum“; og Austurríki, sem átti að vera aflsinin í alsherjarríki Metternichs — Austurríki er nú þegar svo á förum, að segja má um það, sem þeir Hamðir og Sörli sögðu við hinn grimma og heimska Gotna konúng forðum, er ei stjórnaði ólíkt þeim Habsborgarmönnum: „fætr sèr þú þína, höndum sèr þú þínum, Jörmunrekr, orpit í eld heitan!“ Honum urðu þá húnskir sveinar að bana, en það skyldu Úngverjar afmá, og væri það makleg hefnd.* Og svo er enn fremur um ríki Tyrkja í Norðurálfunni, að allt bendir nú til þess, að orð Bjarna ætli að sannast, að það væri geymt vorri öld, „að á henni skyldi eiga kvöld Osmanns kyn og ríki“ — því þar austur frá dregur nú einnig upp óveður, og getur það skollið á fyrr enn varir. En bakvið allar þessar breytíngar og byltíngar liggur þó æ sú vissa von, að önnur betri öld fari í hönd, er þjóðirnar muni framvegis miklu fremur hver ráða sjálfri sèr, og þeir einir skipa fyrir um öll alsherjarmál þeirra, er einhverja atgjörvi hafi til þess; en ei lengur þeir miðlúngsmenn, sem ekkert gátu, meðan þeir sátu að völdum, annað enn að kúga þá, sem þeir náðu til, til þess að álíta sjálfa sig mikla, þó sá mikilleiki

---

* Sjá athugagreinina fyrir aptan efnisröðina.

væri aðeins í því innifalinn, að hindra sem lengst að nokkuð mikið yrði gjört. Er þetta nú og þegar farið að koma fram, því Rússar hafa strax slegið undan og eru nú farnir að snúa huga sínum austur á bóginn að vestan; einsog þeir líka óefað eiga að gjöra, ef þeir vilja hugsa til að verða mönnum að því gagni, sem þeir auðsjáanlega eru ætlaðir til eptir legu lands þeirra, að vera forrennarar sèr meiri manna vestur frá í austurlöndum. Og kom því ei heldur hin fyrri stjórnarvilla í Norðurálfunni svo mjög af því, að stjórnarskipun væri of ófrjálsleg hjá hverri einstakri þjóð, eins og miklu heldur af hinu að yfirstjórnin, ef svo má að orði kveða, allra hinna mikilvægustu mála þar var of lengi á röngum stað — það er segja austurfrá, þar sem hún átti og á að vera vestur frá. Verði það!

Vèr höfum talað svo mart um þetta hèr, bæði af því að það er í sjálfu sèr nokkurs vert, og eins líka vegna hins, að svo sjaldan gefst færi á að skýra slík alsherjarmál fyrir mönnum á íslenzku. Og þó það að vísu sè satt, að fæst kvæðin í þessu kveri fari í þá stefnu, sem hèr einkum hefir verið rætt um, þá höfum vèr þó notað oss það tækifæri, að eitthvað eitt eða tvö gjöra það; með því vèr líka vitum að það er skáldskap yfir höfuð eiginlegra, enn allri annari fræði, sem mælt hefir verið: *„nihil humani a se alienum putare“* (að álíta sèr ekkert mannlegt óviðkomandi). En að öðru leiti skulum vèr nú ei vera að lengja þenna formála, og

aðeins geta þess, að þó útgefandinn hafi viljað láta vanda alla útgjörð bókarinnar sem mest, þá hefir það þó viljað til, að suma íslenzka stafi vantaði í það letur. sem kosið var í yfirskriftirnar yfir kvæðin. Var þessa ei gáð fyrr enn of seint, og hefir af því leitt að vèr höfum sumstaðar neyðst til að láta einfaldt **d** standa, þar sem það átti að vera stúngið, eða þá að breyta yfirskriptum til hins verra, og t. a. m. segja: „Er laufin fèllu", í staðinn fyrir „þegar l. f.", o. s. frv. En þetta vonum vèr menn muni góðfúslega virða á hægra veg.

**Kaupmannahöfn, 10. Maí, 1860.**

*Gísli Brynjúlfsson.*

---

## ATHUGASEMD.

Vèr verðum enn að biðja menn að afsaka ýmsar prentvillur. er eptir hafa orðið óhegndar af vorri hendi í þessari bók. það varð að flýta svo fyrir prentuninni, að tíminn leyfði ei að hafa nógu margar prófarkir til þess alveg að vinna bug á þeim; en það huggar, að þær munu þó ei umflýja sinn dóm, og sæta maklegum refsíngum af öllum rèttum prentvillumeisturum, þó seinna verði. þær helztu, sem vèr höfum tekið eptir, eru þessar:

bls. $4^{16}$ ókinð f. ókind. $8^{21}$ þad f. það. $9^{11}$ findi f. fyndi. $19^{16}$ varstu f. varst. $20^{6}$ elkirðu f. eltirðu. $23^{10}$

en f. eg. 28 [22] norður ljós f. norðurljós. 28 [24] Kríng f. kríng. 34 *G. B.* f. *B. G.* 45 [9] jökul-ás f. jökuls ás. 50 [9] reginsstyrku f. reginstyrku. 103 [2] hönðum f. höndum. 103 [4] [5] [17] hvur... f. hver... 103 [22] Hvurki f. Hvorki. 109 [19] hriggbreiðar f. hryggbreiðar. 110 [13] hugsuna laus f. hugsunarlaus. 123 [20] þistils f. þönguls. 129 [4] biði f. byði. 129 [12] olla f. alla. 133 [7] búa f. háa. 139 [24] lifs f. lífs. 142 [13] saurrugir f. saurugir. 146 [23] bonum f. honum. 155 [5] fórn f. fóru. 157 [8] mínn f. minn. [12] leiða f. leiddi. [19] kappasveit f. kappa sveit. [22] vantar , á eptir „veiga". 158 [6] lífa f. lifa. 170 [19] vantar , eptir „ógnar storm".

Enn fremur munu og sumstaðar þau orð vera í einu lagi, sem heldur ætti að vera skipt o. s. frv.; og þó stundum vel megi efast um hvað rèttast sè í slíku, þá viljum vèr þó alls ei verja stafsetníngu vora yfir höfuð nè samkvæmni hennar; og það því síður sem það leiðir af eðli kvæða-safns, þar sem sumt er fornt, enn sumt nýtt, að menn verða opt í efa um hvern ritsháttinn menn skuli nú heldur hafa, hinn forna eða hinn nýja, og hafa svo á endanum hvorugan, einsog nú og er almennast á öllu því, sem prentað er á íslenzku. En allt slíkt biðjum vèr menn því og að virða á hægra veg, og eins líka það, þó sum kvæðin sèu prentuð með upphafsstaf í hverri línu, og ei öll eins, sem víst hefði farið betur.

## E F N I.

# ATHUGAGREIN VIÐ BLS. IX.

Vèr vitum reyndar, að þeir, sem vilja verja Austurríki og alla hina heimskulegu harðstjórn þess, reyna einkum að gjöra það með því, að kalla það forvörð þýzkalands og hins „germanska“ anda í austurátt. En sèr er nú þá hver forvörðurinn, sem aðeins spillir fyrir því, sem hann ætti að verja og útbreiða; því rèttur „germanskur“ andi, sem aðeins getur verið hið sama sem forn norrænn andi, er Íslendingar æfinlega mættu þekkja eins vel af sögunum og fornkvæðunum eins og allir lofkviðjendur Austurríkis þar suður frá, er ei í því innifalinn, að deyða og drepa til þess að geta svo hjarað við eitthvert ríki í auðninni; heldur miklu fremur í því, að vekja líf og frelsi meðal allra þjóða og stýra þeim svo af viti, af því allir vilja fylgja þeim, sem fram úr skara, eins og Hallfreðr sagði um Ólaf Tryggvason og menn síðan hafa sèð aptur á vorri öld um hinn gamla Napóleon. Því að eins mega nú og Frakkar og Englendíngar sèr svo mikils, að þeir sem stendur eru hinir beztu vinnumenn þessa anda í Norðurálfunni, svo að Frakkar jafnvel á seinni tímum hafa mátt heita nokkurs konar Volsúngar hans; og þó Úngverjar sèu ei þýzkir að uppruna, þá eru þeir nú þó auðsjáanlega miklu færari um að vera forverðir hans austur frá, enn hinir eiginlegu Austurríkismenn. En meðan þjóðverjar vilja ei skilja slíkt, þó fróðir sèu, þá er þeim engin uppreisnar von; og sèst það nú og af hinum ný útgefnu brèfum þeirra A. v. Humboldt's og Varnhagen's von Ense, að hinir ágætustu menn þeirra eru þegar farnir að sanna þetta.

## Bjarkamál hin nýju.

Nú er stund og nú er dagur,
nýr í austri morgun skín,
unaðsgeislinn æskufagur
af hans völdum myrkrið dvín!
Hinum únga lútið ljóma
lotning með í árdags kyrð,
því hann brátt með Skuldar skjóma
skína mun í allri dýrd.

Vaki lýðir, vekur alla
von um frelsis morgunstund;
sko, hve brýzt um brúnir fjalla
bjarminn yfir roðna grund!
Heyrið, lúður hátt nú gellur,
hamast skepna í jötunmóð,
því að allt hið forna fellur
feigðar sitt í eigið blóð.

Vindi, vindi vef Darraðar
víga dísir allar nú,
þær sem fyrr að gunni glaðar
gumnum vöktu helga trú,

til að vinna móði manna
  meginstyrkra hverja þraut,
er af reiði sök um sanna
  sín hin aldna hreystin naut.

Þjóðum foldar, en ei öðrum
  ár var gefin herja jörð,
illum bráð en eiturnöðrum
  opt þó síðan var hún gjörð:
lýðir, nú ei lengur þolið
  löðurmannlegt bleyðiorð,
en úr heim þeim burtu bolið,
  er böndum vildu reyra storð!

Frakkar, Frakkar, fyrr sem stóðuð
  fremstir opt um blóðgan völl,
og í bragna blóði vóðuð
  bjartri fram að sigurhöll!
svo þèr fram í ferðarbroddi
  farið heilir aptur nú,
sem þèr bæði egg og oddi
  eyðið jörmunþrjóta bú!

Enskir menn, er móði ströngum
  margan háðuð orragný,
þar sem fram úr fjalla göngum
  falla vötn um Inda bý!
nè þèr lengur hýmið heima,
  helzt er skylda góðum dreng

sitt ei afl nè auð að geyma,
  er menn sæta beztum feng!

Svo og þú, er sjónum leiddir
  sannleik margan hyggjufróð,
þýzkra manna þjóð, og eyddir
  þokuflókum skörpum óð!
Látið nú ei lengur flækja
  liddu böndum óðalþrótt,
en í skúrum skarpra mækja
  skolið heldur mein af drótt!

Nógu lengi öðrum unnuð
  undir hörðum þrælageir,
móti vörn ei veita kunnuð,
  vopnin yðar deyfðu þeir:
Af herðum nú með hölda móði
  hristið arga þræla mergð,
og hundingja í hjarta blóði
  herðið þau hin deyfðu sverð!

Þá sem glotta að dýrðardegi
  og deyða vilja frelsisskin,
þjóðníðinga þolið eigi,
  því þeir eru nöðrukyn!
Alla verðir eymd að kanna,
  armir sinna gjörða víst,
heimsku studdir hatar manna,
  sem hafa lengi spottað Krist.

En vèr fram í fjarska rimmu
  förum glaðir allir senn,
unz að lèttir doða dimmu,
  er deyfði lengi fold og menn!
Hirðum ei þó ár með hrafni
  úlfi búum nokkra stund,
því að slíku svaðiltafni
  safnast einu fjör um grund!

Þá má friður fyrst með þjóðum
  frelsi búinn heita rètt
og með virðum vígamóðum
  verða grið ad lögum sett:
er menn hafa harma sinna
  hefnt á þeim, er skópu nauð,
og bitrum fyrir fólkalinna
  foldar ókind liggur dauð.

Upp er dagur helgra hefnda
  heimi runninn nú um síð,
látum hana hlítum efnda,
  hlífðar nú er þeygi tíð!
Þá er stund að vægja veikum,
  valur þegar felldur er,
en með æðruorðum smeykum
  áður skömm að deigja her.

*G. B.*

# Ísland.

1.

Eykona hvít við dimmblátt djúp,
Er kappa vakir hrygg við hauga,
þúngbúnu hrýtur hagl af auga
Niður á fagran fannahjúp.
þú grætur þá, sem látnir lifa
þar ljósin Valaskjálfar bifa,
Syrgjandi ber þú höfuð hátt
Heiðskýra viður norðurátt.

Gengin er tíð þá lopt og lög
Valkyrjur riðu í leiptra ljóma
Við sverða skin og skjaldarhljóma
Og kysstu harðan Hildar mög;
þegar að fleyin sköruð skjöldum
Skriðu að þínum ströndum köldum,
þá konungborið kappa lið
Kaus sèr að deyja brjóst þitt við.

þá Miðgarðs vörður mundi ljá
Ástvinum Mímis Mjölni þúngan,
þá hærra lögðir lèt enn túngan
Athöfn var mörg, en orðin fá;
þá frelsi og drengskap dugði að þjóna
En deyða víl og bleyði fjóna,
þá frelsis-morguns myndin hrein
Í mennta spegli fögrum skein.

þenna vèr mætan eigum arf,
Minningu fræga, fegurst dæmi,
Svo niðjum hraustra í huga kæmi
Að örfa hug og efla starf;
Svo aptur mætti úr deyfð og dauða
Dafnandi rísa landið snauða,
Og verða ei meir í myrkra döf
Minningar sinnar eigin gröf.

Kenn oss að feta í feðra spor
Á ferli nýjum, móðir aldna!
Svo lifni storðin fönnum faldna
Og nöprum fylgi vetri vor.
Sveifla þú yfir ítru landi
Ógnandi skærum logabrandi,
Og undir hjálmi Ægis blá
Óskmögum sýndu hýra brá!

---

2.

Hvert leiptrar, Ísland, ljóma glys
Ljóshvítum jöklum á?
Er það gullaldar aptanblys
Eða þíns morguns brá?
Hvorttveggja hyggst eg sjá,
Einsog á sumri kvöld og morgun mynnast.

Vonarljóð syngið, vötnin blá
Veltandi í skógardal,

Brosið þjer hlíðar, björgin há
Brekkur í fjallasal,
Sigurljóð syngja skal
Rjúkandi foss í háu hamragili.

Þótt vèr ei mæki mundum nú,
Meigum vèr berjast enn
Með orði fyrir frelsis trú
Og frjálsir vera menn;
Það ýtar sýni senn
Ad frelsi ljómar fáum jafnt sem mörgum.

Ei fjöldinn manna, virki vönd
Vors eru stoðin lands,
En eins er betri hlekklaus hönd
Og hjarta ens frjálsa manns
En þúsund þræla fans,
Er ánauð keyrðir fyrir vonzku vega.

Svo leggjum ást sem aldrei deyr
Ungir í móður skaut,
Og krepptan lengi rèttum reyr,
Rekum æ sannleiks braut,
Stríðum við þunga þraut
Með hreinum hug, en hötum fals og lygi.

Oss þá hin græna geymir fold,
Og gleymt er þetta ljóð,
Þá fegri mun vor fósturmold

Og frjálsari vor þjóð;
Á forna feðra slóð
Langur og fagur lýðum dagur skíni.

Þú land þar sól vèr litum fyrst
Og líta viljum hinnzt,
Týnd er ei frægð nè tign þín misst, —
Í tölu þjóða minnzt,
Í hjarta ertu innzt
Vor allra þartil önd af vörum líður.

*St. Th.*

---

## Túngan mín.

Sæt ertu, túnga, í svanna munni,
súngin við Íslands jökulströnd;
numin af sjálfum Braga brunni
borin þú varst um norðurlönd!
Konúngum þjóða háum hjá
hljómaði skálda-vörin þá.

Ýmist sem þruma í þúngum skýjum
þreytirðu skjaldar dimman óm,
eða þad er sem anda hlýjum
aptaninn kyssi sumarblóm;
og hvert eitt minnsta hugans verk
hefurðu' í valdi, blíð og sterk!

þegar jeg sat í sætum draumi
um sumarkvöldin björt og laung,
og ægir kvað með ölduglaumi,
aldinn jeg þóttist heyra saung,
þegar með Eddu skáldið skar
skjálfandi hjartaræturnar.

þá var sem efldur Egill stæði
Eireks við blóðgan konúngsstól,
og fyrir hvassri buðlúngs bræði
blossaði um salinn hvarma sól,
en hetjan kvað með raust og rausn
remmda með stefjum Höfuðlausn.

Og þegar svalur snemma um morgna
sveif yfir grundir austanblær
fyrri en sól þeim fór að orna,
og flúði burtu döggin skær,
þegar að eptir drauma dúr
dimmunni jörðin vatt sèr úr:

Var þá ei líkt sem ljúfast yndi
liði hvíslandi að eyrum mèr?
Allt eins og Helga hin fagra findi
fullkunnan stig, og lèki sèr
skundandi gegnum Skuldar haf,
skínandi vængjum borin af.

Meðan að aðrar túngur týndust
tvistum í heimsins ólgusjó,

merkin þín eigi mikil sýndust,
en máttu aldrei deyja þó;
hin jörmunhvíta jökul-drós
jólhelg þig vafði í norðurljós.

Þeim varstu faldin fimbulblæjum,
fjallvætta tryggum undir væng;
hjá lítilli þjóð í litlum bæjum
lögð varstu hljótt á rúna-sæng. —
Þú jörmunhvíta jökul-drós,
jólhelg nú breiddu' út norðurljós!

Og þar með nýrri og nýrri bylgju
nýjar framblossi stjörnur þèr!
Hverja jeg þekki hetju-fylgju!
Hún kveður sömu túngu mèr,
sem þá á jökul-fróni fyrst
forfeður mínir tóku vist!

*B. G.*

---

## Snæfellsjökull.

Yfir hrauna brjóstur
Holt og klettarið,
Þar norðan næðir gjóstur
Sem Nástrandar um hlið,
Klettaskaga köldum á
Snæfellsjökull himinhár
Horfir yfir sjá.

Und svörtu lopta svifi
Suðar strandfugls garg,
Hylst þar Hel und bifi
Hamast Rán við bjarg,
Jötnum líkir loptið í
Skaga dimmir drangar Lóns
Dauðalega við ský.

Klettar margir mæna
Myrku djúpi hjá,
Skarta skör með græna,
Skjálfa í blænum strá,
Flögrar hægt á miði már,
Hvítur frammá röstum rís
Reiðar blástur hár.

Man eg að hamra höllu,
Hafsins storma flóð '
Geystist mærra mjöllu,
Máni í skýjum óð,
Steyptust brimföll björgum af; —
Ekkert sá eg öfigra þèr
Ógurlega haf! —

Þar ei sungu svanir
En sjófugl bjargs í tó,
Og hrafnar hrævum vanir,
Í holti refur gó,
Sætt á kvöldum sumars þó

Lèt í eyrum lóukvak
Í lyngi vöxnum mó.

Þar hjá læknum ljósa
Lítið átti eg hús,
Og að koti kjósa
Knátti hluti bús,
Skipum fleytti um tæra tjörn,
Lítinn flota einatt á
Ánægð horfðum börn.

»Ljóst var út að líta«
Ljómaði fagurt opt
Snæfell hrími hvíta
Við heiðblátt sumarlopt
Skein þar mjöll á hnúkum hæzt —
»Allt er hreinast«, hugði eg þá,
»Sem himninum er næst.«

Rammra vætta ríki
Þar rèðu fyr á öld,
Standa steins í líki
Stirðnuð tröllin köld,
Regin lifa á landi fá,
Veit eg eitt þó vakir enn
Viður æginn blá. —

Bárður blæs í skeggið
Á björtum jökulhnúk,
Magnast hrím og hreggið

Hrynur í bygðum fjúk,
Með klofastaf í kufli grá
Snúðugur þrammar Snæfellsás
Snjófgum vegum á.

Stórkostlegur mun standa
Storðarnesi á,
Sem bleyðum vilji banda
Bygðum sínum frá
Yzti vörður við unnir blár,
Höfuð það sem er fjalla fremzt,
Fylkir Snæfells hár.

Kærst mjer er af öllum
þín eyðilega sveit
Beltuð brunafjöllum
Brims við kaldan reit;
Dapran frá þèr dröfn mig sleit,
Er af þiljum hafskips hám
þig hinnzta sinn eg leit.

Eg sá þig síðla á kveldi
Sveif í vindi fley,
Rennandi röðuls eldi
Roðinn, og vissi ei
Er þúfa hvarf mèr hæzta þín
Hvort að földu hana sjón
Haf eða tárin mín.

*St. Th.*

## Kvöld.

Sólin rennur, rökkrið dreifir
rauna-skugga hauðrið á;
lèttur vindur laufin hreifir,
lítur stjarna himni frá;
máninn skín á meiða rætur,
meðan sofnar rósin bleik,
og hún tárum gullnum grætur
glaðan eptir dagsins leik.

Sofa lík í dauða-djúpi,
dáin, liðin foldar þraung!
Sveipuð moldar morknum hjúpi
molna bein um dægur laung.
Heitt í dauða faðmast fjendur,
fögur jafnt sem vina þjóð;
og við lífsins yztu strendur
eyðist haturs grimdin móð.

Ástin blíða, bölið sára,
bitur sorg og gleðin hýr,
laungun sæt og lindin tára,
lyndis heipt og vizkan skír:
dáið, linað, þverrað, þrotið,
þornað burt úr lífsins straum!
Vinar orð og valdið brotið,
vafið Heljar myrkum draum!

Næturgali, sætt er sýngur
sorgarljóð á viðargrein,
ertu viltur, vesalíngur?
Vísan þín er hrygg og ein.
Kveður þú um kæra daga
kvalarþrúngin ástarljóð?
Má þig einnig eymdin naga
og eitra svo þitt hjartablóð?

Ekkert hèr er fætt á foldu
farsælt líf, sem böl ei sker;
allt er harmi háð og moldu,
hrollur gegnum andann fer.
Mókir þjóð í dimmum draumi,
dauður bráðum fölnar nár,
og í háum heimsins glaumi
hrynja engin vinar tár.

*B. G.*

---

## Ósorg.

---

Apollós barn, sem ert með loga-rún
á enni merkt, með bruna-heitri rós,
hvort sefur þú á svanamjúkum dún',
er sèrðu guðsins himintendrað ljós,
eða þú skemtir þèr á skýja brún
í skruggu hljómi, fjarri lífsins ós:

þá ertu borinn annarlegum heim',
og átt þó samt að byggja manna sveim.

Þú situr yzt á yztum heimsins stól,
eins og Heimdallur, þar sem Bifröst skín;
að eilífð fram þú hvessir hvarma sól,
og heimsins aptur til. Þar dauðinn gín;
þèr hylst ei neitt, sem hauðurs lífið ól,
og hrygðin klökk er eina gleðin þín;
í gegnum tára gremjusollna hríð
þèr gefst að sjá og heyra lífsins stríð.

En hverr veit, nema þú, það yndið allt,
sem yztri nýtur þú á lífsins strönd?
Þar öldu-fallið ymur hreint og svalt,
og undurliljur reisir drottins hönd;
þar sólin skín um djúpið dimt og kalt,
og dökkgræn engi hafs við bláa rönd;
þar gígju-strengur glymur himneskt mál
um gullinveig og mey og fágað stál.

En skærstum ómi sýngur svana-fjöld
er svífur hún að dauðans myrkri slóð;
og eins ertú, um æfidaga kvöld,
er yndið deyr, þú vekur fögur ljóð,
og gleður menn og glæsta svanna öld;
en gleðin sú, það er þitt hjarta-blóð,
sem döggvar líf og deyðir böl og harm,
og deyr svo sjálft í þínum eigin barm'.

En hvar er friður? Heimsins glaumi hjá,
þar hljómar gígju-rödd, sem aldrei dvín?
Við gullna skál? Við augu blíð og blá?
Við bjartan stól, þar konúngs-valdið skín?
Á djúpum sjó, þar sveigir vindur rá,
og silfurrekið drekahöfuð gín? —
Nei! þar er stríð, og lífsins ljúfa sól
ei ljómar sönn og hrein á völtum stól.

Hví leitar þú í ljósum veizlu-sal
að lífsins brunni, þar sem hann er fjær?
Hann er þar lángt í burt, í djúpum dal,
þar dögg á smáum eyra-rósum hlær;
þar fossinn á við fjalla-gljúfrin tal
og fjólum vaggar himinrunninn blær;
þar máninn skín um miðja næturstund
og mærum geisla slær á haf og grund.

þar byggir drottinn, foldar börnum fjær,
því fimbulheilög lifir eigi ró
í glaumi manna, gullnum veigum nær,
þar gígjan deyfir synd, er undir hló.
Í einverunnar heim' þú fundið fær
hið fagra mál, er guð þèr sjálfur bjó;
þar máttu hvíla guðs við góðan barm,
sem glaðast barn á ljúfum móður-arm.

*B. G.*

## Næturgali.

Hjá silfurbláu sundi
við suðrænt ölduhljóð,
þar byggir fugl á blómgum meið
og býr til fögur ljóð;
og það er næturgali,
og þreytir margan brag,
og æ til norðurs horfir heim
um himinkvöld sem dag.

Jeg kann það sem hann kveður:
»Jeg kúrði vært hjá þèr,
þú segulljósa signuð grund,
nú sit jeg aleinn hèr.
Og máninn hlær við meiði
og meyjar hýra brá;
en samt við ljúfa ljósið hans
mig lángar þig að sjá.«

*B. G.*

---

## Ástarvísur.

Láttu á mig augun þín ástríku skína
Ununarfögur og löngunarblíð,
Sem dögg fyrir sólu þá sorgirnar dvína
Eg sè þig — og skjótvængjuð flýgur burt tíð;

Töfrandi augun hin björtu og bláu —
Sem brosir við farmanni spegiltært haf,
Elskendur ginntu þau alla, er sáu,
Ástar á djúp fyr enn vissu þeir af.

Hljómsæta róminn þá heyra þú lætur
Hjarta mitt glaðnar og lyptist á flug,
Svananna kliður um sælustu nætur
Sumarsins þægar ei töfrar minn hug.
Augu þín tindra, en blómroði byrgir
Brosfagran vanga, og ljómar um hann,
Sem kvöldroða ský, þegar sólarlag syrgir
Sumardag langan og fagran, er rann.

*St. Th.*

---

## Eptir Plato.*

Sem morgunstjarna mærust þú,
Meðan að lifðir, varstu í heimi,
En sem kvöldstjarna alskær nú
Uppi tindrarðu í dauðans geimi.

---

* Það er mælt, að Plato hafi kveðið vísu þessa eptir Aster lærisvein sinn, en Aster merkir: stjarna, og er því orða-leikur í vísunni, sem ekki verður náð.

*St. Th.*

## Flug.

»Hvert ertu floginn, þú himnanna son, þú heiðríki vindur,
þú sem að stríður að strönd stynjandi hrönnina ber?
Andarðu kannske í silfruðum streng, í suðrænum sölum?
Leikurð' í lokkum á mey, ljúft meðan upp stígur kvöld?
Ellegar elkirðu sandfokið hart um Affríku lendur,
berjandi bjarkir og eik, barið svo fellur á jörð?
Hættu því, flyttu mig heim! Æ huguriun minn er ei þúngur,
lèttari' en lèttasta fis leggst hann í faðmin á þèr!«
»Lángt frá, eg lopta þèr ei, þú liggur sem Gerýon breiður,
og þegar mig varir minnst missi jeg vængjanna flug.
Orðið þú hefir, það eitt fær þèr lypt um alheimsins svæði;
þú hefir vald yfir því; það flýgur betur en eg.«

*B. G.*

## Nótt.

Gekk eg um grösuga jörð, og græn voru laufin á trjánum;
döggin á sóleyju svaf, sveipuð í myrkföru hjúp.

Sólin var hnigin í hyldjúpan straum; það heyrðist
ei vitund;
eigi hið lèttasta lauf liminu bærði sig í.
Settist eg þá undir aldræna eik, og andinn á flugi
hvarflaði helgrindum að hugaður Gjallar á brú.
Liðu þá fram eins og fylkíngar dimmar fornmanna
stundir
elztu frá upptökum heims, allri svo fram eptir tíð.
Svo var eg kominn í söguna, þar er Cæsar og Crassus
rósturnar hófu í Róm, ruddu í alþýðu fè.
Allt í einu jeg heyrði þá hljóm, sem höggvandi fíngur
glymdi við gulldreginn málm, gígjunnar festan á
barm.
Næturgali það var, sem vaknaði værum af blundi —
en hvað hann sætlega saung, saungfuglinn inndæli
minn!
Saunghljóma glymjandi slög hann sætum leiddi úr
barka,
undir svo eikanna fjöld undrandi glumdi og kvað.
Öllu jeg gleymdi, og gunnfrægar hetjur mèr gengu
úr minni.
Sá sem að þeytti þeim burt, það var einn dálítill
fugl.

*B. G.*

---

## Nótt.

---

Nú byrgir sólu báran köld
Bláfögur hefjast næturtjöld,

Liðinna ljós þar vaka,
En friðargeislum máni mær
Mildur um vötn og skóga slær
Og silfrar svörðinn raka
Móðar
Hljóðar
Dróttir blunda
Dags til funda
Sneyddar hörmum
Drottins faldar föður-örmum.

Ó þú blessaða, blíða værð
Bezt sem að friðar hjörtu særð
Er þrautir dagsins dvína;
Nú er þagnaður niður hans,
Nótt! þú dagur hins innra manns,
Guðs frá þèr geislar skína;
Niður
Friður
Helgur, blíður,
Af himni líður,
Engill dvala,
Yfir jörðu svífur svala.

Allt fær hið liðna lifnað þá
Og ljúfir svipir berast hjá
Við mánabjarmann blíða
Fjærlægðar hug ei fjötrar bil

Og fyrr og nú er ekki til,
Eylífðin opnast víða
Ljómar
Ómar
Stjarnafjöldi
Á fríðu kvöldi
Nú með listum
Sem á Edens aptni fyrstum.

Fjölstirndi himin, bláa braut!
Barn en fegurðar þinnar naut
Og lof þitt tæpti tunga,
Þá hverful óskin hreifðist sú,
Að háleit, fögur, djúp, sem þú
Yrði mín sálin unga,
Væra
Skæra
Skuggsjá anda
Allsvaldanda
Dýrðarlindin,
Sólarskjöldungs skuggamyndin!

Til þín á nætur loga leið
Ljós-vængjum borinn þreytir skeið
Frá jörðu heimfús hugi,
— Samkviðum bjartra sólna her
Syngur þjótandi um eyru mèr
Lopthafs á leipturflugi —
Flýgur
Hnígur

Guðs að stóli
Geisla bóli
Alvalds bjarta
Eylífi faðir! að þínu hjarta.

*St. Th.*

---

## Ljósaskipti.

Ó þú ljósheima líf sem ert lukka og kíf
unnið saman af himneskum höndum!
Hvar er dygðin og dáð, hvar er dugur og náð
sem að ókunnum lifir á löndum?

Þá á búngandi barm vakið bölsins af arm
fellur tindrandi tárið af auga;
veiztu' að það er eins þúngt eins og þjóðlífið úngt
sem að harðstjórar helblóði lauga?

Þegar dauðans á dún líður draugheima rún
yfir hverfandi ástvinar æfi —
veiztu' að lífgjafans ljós er hin ljúfasta rós
sem við eigum, og okkar við hæfi?

Þegar seinasta sinn gefur svanni þèr kinn
eða ástríka, ylsæla munninn —
veiztu' að dagroðinn deyr þá, og dafnar ei meir,
þá er sólin þín slokknuð og runnin.

þegar döggin í dal blikar dýrðar um sal
fyrir sólgeisla leikandi ljóma:
það er ímyndin aum af þeim ástríka draum
sem að skemtir með skammvinnum blóma.

þegar hetjunnar hönd spennir hveldjúpa rönd
fyrir ættjörð og ástríkan svanna —
veiztu' að miklu er meir' sá en mildíngar þeir
sem að heiminn með helgreipum spanna?

þegar blikar við brún eins og blossandi rún
gleðin hreina frá hjartanu runnin —
veiztu' að hún er eins há eins og heimslindin blá
sem að freyðir við fagrahvels brunninn?

Ef að helduröu heim yfir hafbláan geim
þar sem ástin þín eptir þèr bíður,
þegar sjórinn með saung kyssir svignandi raung
og á brjóstunum brimfroðan sýður;

Og þá munnur við munn drekkur munar af unn
þegar máninn um miðnætti glitrar,
meðan hjartanu hjá allar heimsæðar slá
meðan fjörið í faðmlögum titrar:

Mundi ríkur í Róm og í rymjandi hljóm
hafa Cæsar þær ljómandi leiðir?
Eða holundar haf runnið hjörvunum af
með þeim saunginum sama það freyðir?

Gjörvallt ljósheima líf sem er lukka og kíf
æ með óminum eilífa kveður:
það er dáðin og dygð sem með dugnaði' og trygð
þig um síðir með sælunni gleður.

Hvar er dygðin og dáð? Hvar er dugur og náð?
Veiztu ekki' að þú átt þetta sjálfur?
Farðu heimsins um haf þó þú hnígir í kaf,
bara vert' ekki veill eða hálfur!

*B. G.*

---

## Vorvísa 1859.

Köld ertu, móður-mold,
mæt þó og unaðsæt:
ríður um reginleið
rósfagurt norðurljós.
Sæl er í djúpum dal
döggin um leiti snögg;
leika við tæran læk
ljómandi fjalla-blóm

Sólin af austri sæl
sveimar um bláan geim;
moldrúst og kumlin köld
krýnir hún geislum sín.

Fræ eru í foldu ný
falin um völl og dal;
líf muntu, sunna ljúf
leiða í úngan meið.

Ginnmóðug glymur hrönn
gæheima vakin blæ,
ýngir upp aldinn saung
ólm fyrir Gardarshólm.
Glaður um skýja skeið
skærhvítur röðull hlær;
bein stendur blossa rún
bláfjalla tindum á.

Rennir að austurs unn
augum frá gömlum haug
Gunnarr, og geisla hrönn
glýjaður horfir í.
Nýrri þú heilsar hýr,
hólbúi, frelsis sól —
svikin úr auðar eik,
eymd farin burt og gleymd.

Sverð lít jeg svífa hörð
sólar um fimbulstól,
dreyrinn um himins dyr
dreifist úr skýja kleif.
Hleypir nú feigum hóp
hundmargur yfir grund;

stendur við Gjallar grind
gráslegin Hel og blá.

Hreifist með branda bif
blóðvakin und á þjóð;
glymur við gunnar straum
grein hver og akurrein.
Friðar er farin tíð,
fundur á víga grund;
fram leiðir fólka sveim
frónbaldur Napoleón.

Hvert stefnir jelið hart
hildar með ráðin gild?
Sýður við sólar hlið
særinn, og dauðinn hlær.
Sunna hin sama enn
svífur um aldar líf,
dapran er dreyra hjúp
dró yfir Waterloo.

Ein situr eyjan mín
ítur og mjallahvít,
blikandi dregin dúk
drós — það er norður ljós!
Hulin í jökulhvel,
hrínguð af Rán í kríng,
þreyirðu þýð í sæ,
þegjandi jökulmey!

Brostu, því betri víst
blær fyrir geislum hlær,
ýngir upp aldinn saung
unn viður segulbrunn.
Heyrirðu heljar spor
harðstigin vígs um garð?
Fjáð brýnir foldar þjóð
fleina við Gera-stein.

Svanni mun ítur senn
sinn gefa rauðan munn
frjálsum, og fleygi gulls
frjáls bjóða ljósan háls.
Sól gyllir sæ og dal,
slær yfir tind og hlær;
köld ertu móður-mold,
mæt þó og unaðsæt!

*B. G.*

---

## Kvöldsjón.

---

Sólseturs geislar leika á lygnum bárum,
Lágt er að öldubaki hnígin sunna,
Gullbjartar titra gárur blárra unna,
Glitrandi steinar vökna af Ránar tárum.

Situr við æginn svanni í hvítum skrúða
Um sumarkvöld, en báran rennur þýða
Glampandi að strönd og væta vill hinn fríða
Fannhvíta meyjar fótinn köldum úða.

Þá fagnar Unn, er brostin baðar ylgja
Bjartastan fót, og deyr með ljúfu geði;
Ó að eg sjálfur orðinn væri bylgja,

Á ægis vakinn skærum silfurbeði,
Í munardraum þá mundi eg henni fylgja,
Við mjallahvíta fætur deyja af gleði.

*St. Th.*

---

## Minning.

---

Brostin er lilja, mey er möðkum fengin
Und myrka fold,
Saklausa brjóstið, synd þar leyndist engin,
Svanfagurt hold.

Í heimsins stríði frið mèr fannst þú boða
Fögur og skær,
Sem stjarna kyr á bárur brims í voða
Brosgeislum slær.

Þín gröfin, mey! á æsku liðin árum,
Sè yndisvæn,
Og hreinnar ástar helgum döggvuð tárum,
Svo haldist græn.

Ó skín þú sól! á hennar laufgrænt leiði,
Litfögur blóm
Vökva þú nótt! sem vetur enginn deyði
Vindsvölum klóm.

En frækorn beri vindur vængjahraði
Að vöxtulig
Drúpi þar trè með tár á hverju blaði,
Að trega þig.

Um nætur hvolf er hverfist stjarna skari,
Hvítvængjuð þú
Á geislum mána lètt sem lopts andvari
Að leiði snú!

Náttdaggar silfri settum vefjarhríngum
Þú svífir á,
Er fagurspunnir laufgar limar kríngum
Leiptrandi gljá.

Þinn engilfótur veikan vef ei slítur,
Nè værum dúr
Sofanda fugl', er höfgu höfði lýtur,
Þú hrindir úr.

Svo þú í draumi blessað augans yndi
Optlega skín,
Og hverfur burt í mjúkum morgunvindi,
þá myrkrið dvín.

Hin ytri fegurð fæðist til að deyja,
Ei fölnar hin,
þitt ljómi um eylífð, sofin, saklaus meyja!
Sólarlags skin.

*St. Th.*

---

## Túnglskin.

Vakir og vefur
völva nætur
allt í iðdjúpu
alda skauti;
hrynja holskeflur
að hömrum frammi,
kveða svefna saung
Svölnis brúði.

Beltast hvít
fyrir blóma ilmi
þoka þunnblæjuð
á þremi bjarga.
Sofa nú liljur
á Svarins haugi,

dregnar draumbleikum
dúki mána.

Ymur dimt
í djúpi norður
unnar gráð
fyrir auðum sandi.
Skelfur rós
af Skuldar hljóði,
hallast öldnum að
ara-steini.

Minnist þá máni
mjúkum ljós-vörum
blítt við blóm
frá bleiku skýji:
»Hèr skaltu hvíla,
og hræðast eigi,
þótt þèr eygló ei
yfir ljómi.«

»Geng eg gullfagur
í geimi skýja
götur ginnbláar
á glæstum boga;
fól mèr Allvaldur
yfir að svífa,
ástsælt unaðblóm.
yndi þínu.«

»Kem eg úr austri
frá espilundi,
unnum eiðum
frá elskenda;
blessaði eg bæði,
og birtu sló
yfir munar hvítt
meyjar-enni.«

*G. B. S.*

## Morgun.

»Rís upp mín sál og bregð nú blundi«,
bjarminn á austurfjöllum hlær;
dagliljan rís í dökkum lundi,
döggin er enn svo hrein og tær;
rístu af mjúkum drauma dún,
dagurinn skín á fjalla brún!

Bíðið mín, rósir, blóms á reiti,
breiðið út laufin móti sól!
Blíður var austan-blærinn heiti,
brúðskrautið það sem fríðast ól!
Sæng vil jeg gánga glaður frá
gullfagra yðar dýrð að sjá!

Skil jeg það vel, hví skáldin hafa
skýrt eptir yður. meyja lýð,
því fyrir utan allan vafa
engin er fögur sumars tíð,
ef ekki þèr með yðar skraut
upplífgið græna blóma-laut.

Hvað býr í yðar hvelda djúpi?
Hverr kann að lýsa undrum þeim?
Ósýnilegum ilms í hjúpi
eigið þèr fagran töfraheim,
og yðar dýrðar döggum á
dreymandi brosa álfar smá.

Þegar að glitrar guðs við fætur
glódöggvuð rós um morgunstund,
yðar jeg minnist, Íslands dætur,
eld-rósir lífs á hvítri grund,
sveipaðar bláum hafsins hríng,
himneskra rósa sameiníng!

Hesperídanna helgir lundir
hyldjúpum kríngjast vesturstraum;
sífelt er vor um grænar grundir,
gullrauðum leikið sælu-draum;
og aldin hneigir blíður blær,
blikandi gull í laufi hlær.

Víst er ei þessi vorsins prýði
valin og lánuð minni grund;

eilífu sveipuð ægistríði
á hún sèr litla sumarstund;
aldin ei neitt á eikum hlær,
engin þar rós nè pálmi grær.

Hvert munu samt hjá köldum klaka
kaldari hjörtu í brjóstum slá?
Eða mun síður ástin vaka
ísköldum jökulsvellum hjá?
Er ekki stjarnan eins og rós
innanum fögur norðurljós?

Eigið þið glaðar yðar blóma,
Indía-grund og Dantes fold,
sífeldum vermdar sólar ljóma —
samt er þar einnig jörð og mold;
vitið og ástin víðar grær
en Vallands þar sem báran hlær.

*B. G.*

---

## Vísur.

Máninn skein á marinn blá,
mundi skemta höldum;
vindur svalur vestri frá
velti laungum öldum.

Stjarnan yfir lagar leið
lángan þreytti boga;
fögur ljósa fimbulreið
flaug í bylgju-loga.

Stóð jeg fram á stafna-jó,
stundi þúngan alda:
örn og svanur ásamt fló
yfir djúpið kalda.

Afl og fegurð ásamt fer
yfir lífið manna,
feykir burtu feigum her
»fölsku spámannanna«.

*B. G.*

---

## Hugsjón.

> Billings mey
> Eg fann beðjum á
> Sólhvíta sofa;
> Jarls yndi þókti
> Mèr ekki vera
> Utan við það lík að lifa.
>
> Hávamál.

Í morgunroðans myndum
Muna þú brosir við,
Svífur með sumarvindum
Sýngur í fugla klið

Á beði blómgra stranda
Mig blíðast dreymir hnoss,
Kvöldvindar að mèr anda
Ósýnilegrar koss.

Þá döggslóð lètta líta
Um ljósan get eg svörð,
Fætur himneska, hvíta
Hygg eg þar liðna um jörð;
Blálygnra bíð eg strauma
Á bakka leiðslu í,
Að dísin minna drauma
Úr djúpi rísi því —

Sè þig í svefni værum
Svífandi berast þrátt
Á sævi silfurskærum
Við sætan hörpuslátt.
Und friðar björtum boga
Þú birtist mèr í dúr,
Sem sól eg lít þig loga
Laugaða sumarskúr.

Pílagríms hnè sem hnígi
Þá helgan engil sèr
Genginn úr gullnu skýji,
Glaður eg skelf fyrir þèr;
Þú lystur augun aga
Ægileg fegurð lízt

Mín orð á munni upp daga
Og mál í andvarp snýzt.

þú ert sem himins háa
Hafspeglað dýrðarskeið,
Flóðinu fagurbláa
Svo fjærri og nærri um leið:
Hvikul sem haugaeldur
Hverfur þú sjónum kær,
Hugurinn fast þèr heldur,
En höndin þèr ei nær.

Hvar lífs á sandi liggja
þín lèttu himinspor?
Hvar þínir skógar skyggja?
Hvar skín þitt fagra vor?
Er þitt að utan ríki
Við augans sjónarhríng?
Lít eg að eins þitt líki
Við ljósra drauma þing?

Ó meyjar ímynd fríða
Er eigið firrist hrós!
Bljúg einsog fjólan blíða
Og blómleg eins og rós.
Hve skært þitt augað skýra,
— þú skilur ei þess völd —
Hlýtt einsog sólin hýra
Og hreint sem stjarnan köld.

Þú hugmynd íklædd holdi
Hvar er þèr búin dvöl?
Ef hyggjan heilög þoldi
Heimsins að nálgast böl,
Þar blæs um leiðir landa
Lífkaldur feigðar þeyr,
Þar aðeins þyrnar standa,
Þegar að rósin deyr.

Þú finnst ei gulls við glampa
Nè girnd þar brjálar vit,
Nè skríls þar skært við lampa
Skrautbúins ljómar glit;
Eigi hvar glaumur gellur
Glópa með kesknisróm
Og fíflsku hlátur hvellur
Um hjörtu vitnar tóm.

Síþreyð, en sjaldan fundin
Svífur þú draums í heim?
Þú býr við þagnar lundinn
Þráspilltum fjarri heim;
Á angurblíðu brunni
Þinn bjarti svanur gól
Þú ert í einverunni
Ein sem á himni sól.

Sætt er þinn hljóm að heyra.
Og himinfegurð sjá,

En eitt er öllu meira,
Sem aldrei deyja má:
þín mildin miskunandi,
Og meðaumkvunar hrygð,
þinn elskuríkur andi,
þín innilega trygð.

Hver kann sem þú að þýða
það, sem að augun tjá,
þolgóð við þrautir stríða
Og þerra grátna brá?
Hver kann svo viljann vekja,
Er vafinn svefni beið?
Hver kann svo hógvært hrekja
Hneyxlun af sinni leið?

Sætast þeim sorgin gleymist,
Sem að þitt brosið skín,
Sætast hver draumur dreymist
Í dýrðarörmum þín;
Vor, æska, himin, heimur
þinn heimanmundur er,
Náttdymmur dauðageimur
Dagroða fær af þèr.

*St. Th.*

---

## Naut og lóa.

Naut! sèrðu lóuna lètta
Hún líður í bláhimins sal,

Jafnlendis jörðu við slètta
Þú jórtrandi liggur í dal.

Þèr lízt ekki á lóuna smáu
Nè lètta himnaför,
Nè saunginn í sölunum bláu
Og sumargleðinnar fjör.

Þú baular með öskrinu illa,
Ýskrandi segirðu þá,
Að vænna sè vömbina að fylla
Og velta sèr jörðinni á.

Þú stángaðir nú ef þú næðir,
En nautshornin eru ei svo laung,
Heyrðu hvað lóan þig hæðir,
Um himininn flýr hún með söng:

»Sínum hvað sæmir að æfa,
Saunglistin dillandi mèr
Og vængirnir himnesku hæfa —
En hornin og klaufirnar þèr.

*St. Th.*

---

## Vetur og vor.

Á fjallatindum fríðum
Fönnin hvíta skín

Gróður í grænum hlíðum
Glitrar snjór þar dvín;
þar hjá lindum lifna blóm
Og í runnum fugla fjöld
Fögrum kveður hljóm.

Vetur efra eg eygi,
En hið neðra eg sè
Mey sem höfuð hneigi
Hýr í föður knè,
Hallast vorið vetri nær,
Karls við freðið klaka skegg
Kærust dóttir hlær.

*St. Th.*

---

## Sunnanför.

„Norður líður aldan öll,
eigrar hugurinn víða.“
G. Brynj.

»Glaður hèðan vil jeg venda«
vært í segulskaut á ný;
gjörvallt líf skal eittsinn enda,
aldrei hef jeg kviðið því.
Kveð eg yður, ítra drósa
augun dökk og hárið svart!
Og þig, bikar rauðra rósa,
roðahvolfið daggarbjart!

Líð jeg norður brautir breiðar,
báli knúinn yfir lönd,
skjótar en um hrannar heiðar
hleypur gnoð með snúin bönd;
ótal borgir framhjá fljúga,
foldin snýst sem hjól í kríng,
ei er að tala' um leti' og lúa
láðs á steyptum járnahríng.

Lángt í skærum Suðra sölum
sá jeg rós og lilju-blóm;
meyjum frá og horskum hölum
heyrði eg orð og snjallan róm;
og frá turnum himin-háum
hvellur glumdi stundardans,*
en frá veggjum gullin-gljáum
glóði fagur ljósa-krans.

þegar jeg nam það að líta,
þá komstú í huga minn,
gamla fanna foldin hvíta
fjarri mèr, og ísinn þinn;

---

* Á mörgum kirkjuturnum í suðurlöndum eru „klukku-spil“, og hljóma ýmisleg lög við hverja stundu hátt og snjallt. þegar nú klukkurnar gánga eigi eins, og fleiri turnar eru nærri hvor öðrum, þá byrjar hvorr eptir annann, svo þessi glaumur er nærri því alltaf, og svo hár að varla heyrist mál manna.

heldur vil jeg hjá þèr búa
hvellan laus við dansins óm,
og á þína Æsi trúa
en hinn gamla suð'r í Róm!

Aldrei kom sá yfir dagur
eigi sem að hugur minn
hugsaði þig, sem hár og fagur
hjálminn bjarta spennir þinn,
jökul-ás í fimbul-feldi,
faldinn mön af hvítum snjó;
vermdur neðan ólmum eldi
undir djúpum norðursjó!

Sólarfjalla birtir brúnir
blíð og voldug morgunsól,
og þær sömu röðuls rúnir
Ránar gylla kristallsstól;
þótt þú rennir, röðull fagur,
Ránar til um sèrhvert kvöld,
aldrei samt þinn deyi dagur
dýr um andans himintjöld!

Minntu, Saga, mögu þína
meginfagra tímann á,
og að það má aldrei dvína,
er þú fyrri gæddir þá;
að þeir megi standa og stríða
stæltum móti deyfðar her,

og ei öðrum lýðum líða
landið góða að helga sèr.

Hvað mun tímans heita dagur
höfgan eptir eymdar dúr,
þegar blóma fjöldinn fagur
frjálsri moldu gægist úr?
Einhverntíma víst hann vendir
veldishönd að öldnum reyr,
og hans tíð á engan endir
ef ei þjóðin fyrri deyr.

*B. G.*

---

## Prometheus.

Upp af foldar fimbulvíðum geimi
fjallið aldna rís í heimi,
og að skýjum ægigráum nær;
sól á víxl og svölum frostum slúngið
sveipað jökli, logum innan þrúngið,
en við rætur dunar djúpur sær.
Kveður lopt af hræfuglanna hljóði,
hrynja fossar út um dala mót;
brimlöðrandi blæs í jötunmóði
búri dimt við hamra fót.

Eilíf rás um uppheims bláa vegi
alltaf skiptir nótt og degi

báðar skærar fram um Dellíngs dyr.
Yfir tindum himinstjörnur stíga,
stiltar aptur niðrí sjóinn hníga,
hamar stendur, hann er alltaf kyrr.
Fögur blóm í fjalla djúpum gjótum,
fróar yður döggin himna skær?
Yðar kyn á öðrum dala mótum
yndislegri prýði hlær.

Einn þar hljóðar annarlegum eymi,
eigi frjáls í sólar heimi,
kuldahrollur kvalið hjarta slær;
það er hann, sem Þrúðvalds fyrir reiði
þrautir fann á mærrar æsku skeiði,
honum enginn huggun neina ljær.
Hlekkjum reyrður fast að köldum klaka,
kramið hold, og opin feigðar sár!
Svefnlaus augu sviða-þrútin vaka,
sollið hjarta, engin tár!

Gammur situr, gráu fiðri búinn,
græðgi fast og sulti knúinn,
augum gýtur innst að hjartans rót;
fölvu nefi slær í opnar undir,
eykur kvöl um lángar dauða-stundir,
unir kvikt við ógnarheima blót.
Átfrek slítur ótal kvala móðir
agn, og vánga þrúðgum hrammi slær;

þar er enginn vinur, enginn bróðir,
öll er huggun dauð og fjær!

Fram um heiminn veltast ótal aldir,
undrastraumar jökulkaldir,
hann er kvalinn hamrabeltin við;
hríðum lostinn, hlekkjum þúngum marinn
heggur æ og slítur feigðar-arinn
jörmunmikinn Japetusar nið.
Hvergi viknar himna meginsjóli,
horfir rótt á guðdóms kvalda mynd;
augað mænir upp að drottins stóli
aumt og rautt frá Heljar grind.

Gegnum lífið gengur kvöl hins eina,
gjörvöll jarðar börnin kveina,
sífelt glymur sorgleg dauðans unn.
Æðarslögin óð og höfug titra,
úrgar döggvar blóðgum ljóma glitra.
fölnar rós við djúpan dreyra-brunn.
Áfram þreytir öld í reginmóði,
alltaf gengur tímans möndli nær;
af sèr hún í rauðu bana blóði
böl og sárar eymdir þvær.

En hvað dugir það, ef þú ert kvalinn?
þitt er verk um jarðar dalinn
eflt, og verður aptur tekið sízt.
Ei var þjóð til þeirra kvala sköpuð,

þjáð að lifa, deyja síðan töpuð; —
geislinn loksins gegnum andann brýzt.
Sèrhver nótt um síðir enda hefur —
sèrðu nokkuð morgunroðans ljós?
kaldur dauðans dimmu-hrollur vefur
djúpt við hjartað lífsins rós.

Lífsins blóma, guðdómseldinn góða
gafstu fjölda jarðar þjóða,
allrar vizku undirrót og stoð.
Það var synd, því móti Rögna ráði
regindjarfur vilji honum náði,
eigi var það almættisins boð.
Himinmærin, horfin gullnum loga,
hún, sem glöð að foldar vígum óð,
hún þèr lypti himins upp að boga
hátt frá dimmri jarðar slóð.

Hefðir þú ei himins eldinn tekið,
hvar þá væri afl og þrekið?
Hvernig væri þá á víðri fold?
Kalt og dimt, og sjónlaust andans auga,
allir líkir skuggum bleikra drauga,
engin gleði, eintóm dauðans mold;
engin vinna andans krapta nærði,
engin leit að sannleiks djúpri rót;
enginn vindur öldur helgar bærði
undir vizku-trèsins rót.

Laungun djúp til ljóssins unaðsala
lypti önd um vegi svala
til að kanna tignarskæran heim.
Var það synd, ef vildi maður vinna?
Var það sæla, ef ekkert mátti ginna
hugann upp frá lágum grundar geim?
Var það rètt, ef guðs í góðum friði
gengi lífið sorgarlaust á jörð?
Var það rángt, þó reginsstyrku hliði
ryddi burtu sálin hörð?

Sjálf þig hóf að drottins dýrðarláði
dóttir Jóvis, efld að ráði;
hegníng bitnar hörð á einum þèr!
Dýrt var keyptur sannleiks ljúfur ljómi,
leikur samt í þokudimmum ómi,
truflast æ af ólmum heimsins her.
Guðleg meyja glæddi laungun sæta,
gneista skærum lífsins til að ná;
himnesk synd, sem ein má andann bæta
og hann rífa myrkri frá.

Gegnum böl og mæðu stríða strauma,
stunur hjartans, feikna drauma,
svífur andinn hátt frá rauna reit.
Ljósin blika, dimmu djúpi falin,
dýr og skær í gegnum himinsalinn,
eygjast loksins aumri foldar sveit.

Sífeld iðni guðdómseldinn góða
glæðir samt, og eflir fríða dáð;
smá eru fræin smárra foldar þjóða,
samt þau loksins hljóta náð.

Hverr veit það, er hugsar æðstur sjóli
himins upp' á veldisstóli,
falinn jörð í myrkum meginhjúp?
Veit hann ei, að hann hefur andann alið,
og í honum marga krapta falið,
undraheim og óþrjótandi djúp?
Viljinn sèst á veldis-bárum tíða,
veltifleygum jarðarlífsins straum';
einhverntíma þjóðir loksins líða
laungum upp úr kvala draum'.

Því hinn styrki ljóss á geisla gljáum
gengur nú frá sölum háum,
fyrir brjósti freyðir himna sær;
hann hefir einnig þúngar þrautir unnið,
þekkir kvöl og harmaskeiðið runnið;
nú hann ríkir nauðum öllum fjær.
Sigurharðan skjótt hann bendir boga,
blóðið hnígur soltinn gammur í;
hendur guðsins hlekkinn sundur toga,
heims er byrjuð æfin ný.

Sterkan faðm í stjörnu-geimi breiðir,
stríðar þreytir himinleiðir

jörmunfrægur Jóvis dýrðarson;
flytur þreyttan burt úr nöprum nauðum,
náum frá og varga-hræjum dauðum —
aldrei bliknar trygð og trúlynd von.
Gegnum háan blástjörnunnar boga
berast þeir að fjarrum guða-sal,
þar í sigurhöllum ljósin loga
laung er tíðin mönnum fal.

Ómi þúngum Heljar grindur glymja,
gljúfur skjálfa, hrannir rymja,
dynur stuna dimm úr vítis geim;
augum stríðum upp til himins lítur
óvæg Hel, og sárt á jaxlinn bítur,
hann er fjarri hennar drauga sveim.
Veit hún glöggt, að honum fleiri fylgja,
fækkar hópum ótt á Gjallar brú;
heljarstraumsins hamröm öskrar bylgja,
hennar dýrð er enduð nú.

Hann er skrýddur himins björtu klæði,
hverfur burtu sorg og mæði,
liljuhvítrar gróa síðu sár;
augað hýrnar uppheims fyrir ljóma,
eilífðar í morgunskærum blóma,
ekkert hrynur eymdar-vakið tár.
Fyrir sólu blika gullnar grindur
Gimlis lengst við himinremmdan fót;

hörpustrengi hreifir mjúkur vindur,
heilagt því er endað blót.

Lífsins dögg, af ljósum hvarmi runnin,
líður gegnum skýja brunninn,
vekur þjóð og vesæl andans blóm.
Fjötrar losna, frelsis-sólin mæra
fjöllin roðar, eykur logann skæra,
glymur jörð af gleðiþrúngnum hljóm.
Hvílir mey í skugga-ljúfum lundi
loksins þreyðum vinar barmi hjá;
sæt er þrautin eptir fengna fundi,
feginstárin væta brá.

Hví þá ei? Ef þinna kvala kendi
komin þjóð frá sömu hendi
eins og þú, sem nú ert horfinn heim —
mun hún þá ei þinnar sælu njóta?
Þú lèzt hana gneista ljóssins hljóta,
þú varst fórnin fyrir sigri þeim.
Gegnum stríð og synd að sigri líður
sá, er þúngan jarðarhlekkinn ber;
eptir honum sigur-sveigur bíður,
sem á himni geymdur er.

*B. G.*

## Saklaus og slægur.

Saungfugl á greinunum glaður
Gelur af elskunnar nægð.
Und björkinni biltir sèr naður,
Bólginn af vonzku og slægð.

Af illsku hann eitrinu hvæsir,
Yptir sèr jörðinni frá,
Bugðum um limar hann læsir,
Litlum vill óvitríng ná. —

Sýngjandi fuglinn burt flýgur
Flugglaður himninum mót,
Illviljuð eiturkind hnígur
Aflvana meiðar að rót.

*St. Th.*

---

## Björk.

Björkin mín væna! í vatninu blá
Á vormorgni fögrum þig speglast eg sá,
Þá dögglitir fuglar á glitrandi grein
Gólu mót sól, er í austrinu skein,
Blíða mig dagdrauma dreymdi.

Um sumarnótt væra, þá silfraði skóg
Svífandi máni í lágnættis ró,
Á náttgala hljóminn eg hlustaði rótt
Og hjarta mitt kyrðist um þögula nótt,
Hrygð minni hjá þèr eg gleymdi.

Á hausti þú lèðir mèr hæli og skjól
Í hreti þá kólguský byrgðu fyr sól,
Og laufblöð í storminum fuku um fold,
En faldurinn græni var hníginn að mold,
Þá dauft var um dalina auða,

Nú skelfurðu vetrar af hreggbyljum hrist,
Og hver mun nú líta við barlausum kvist?
Það fölnar í dag, sem var fagurt í gær,
En frosnum á baðmi mitt vonarlauf grær,
Þig ljúfasta lít eg í dauða.

*St. Th.*

---

## Heimfýsi.

Fagurt var kvöldið í friðsælum lund,
fagurt var suðrið hið varma!
Sá jeg þar ótal hin svarteygu sprund,
snjóhvíta fætur og arma!
Annað mèr samt í öndinni skein,
unni jeg hvergi þar silkirein.

Hetjurnar frægu á formanna grund
fundu að hjarta mèr leiðir!
Heiðurinn fagur um hauður og sund,
Helíkons lindir og meiðir!
Ó hvað jeg ann þèr, hin aldna tíð,
innsett og helguð af frjálsum lýð!

Ó hvað jeg ann þèr, mitt ljúfasta land,
leit jeg þar fyrst mína daga!
Aldan þar hljómar við ægisand,
eilíf og fræg er þín saga!
Saga þèr bendir, og sætt hún hlær —
á sigrinum frelsið og veldið grær!

*B. G.*

---

## Mahómet II.

Stóð hann stálklæddr,
studdist herfleini;
glóði gullhjálmr
á grams höfði;
undraðist iðgrimmr
aldna prýði,
fallna á foldar þröm
fólknárúnga.

»Lætr nú lævíss
lèttum dordíngull

vefi vorpit
um vísa sali;
klakar nátthrafn
í kynríkum
Affrasíabs
öðlíngmúrum.«

Skinu gullnir
í glampa sólar
hjálmar hvolfreistir
helgra vèa;
inn gekk öðlíngr
ok um öxl reiddi
ægiligr
ógnar ljóma.

þá var dimt
er dró fyr sólu
blóðug ský
böðvaldenda,
ok kross helgr
kraup til jarðar
fyri brúnygldum
boga mána.

Titruðu salir
tírglóandi
fyrir nýbreytni
naðels boða,

er drápgjarnar
dreyrug hófu
turna túngl
Tyrkja hendr.

þá var kynfrægum
Konstantíni
rundit af römum
ríkistóli,
ok Darraðar
dreyrgr fáni
stoltum lèk
yfir Stambúls tindum.

*B. G.*

---

## Geislabrot.

Veizt' að allt fer og ekkert bíður?
Ólgandi dunar lífsins haf;
dagliljan blómgvast, bliknar, líður
bersnauðum staungli loksins af.
Og máninn rís af marar ósum; —
mundi hann standa' á himni kyrr? —
Nær fannstu blæinn bíða á rósum,
borinn um fjarrar sólar dyr?

Hæðirðu þann, sem hugann lætur
hverfulum draumum líða frá?

Hlærðu að þeim, sem gengna grætur
gleðinnar stund, og tárast má? —
þú grætur aldrei, þín eru tárin
þornuð í heimsins sæta glaum';
lifandi ertu lagður nárinn,
laugaður djúpum gleymsku straum'.

Rotnaðar grafir, pelli prýddar,
purpura-dúk og gullinmálm,
hríngum og festum fögrum skrýddar,
þèr finnið ei til af mínum sálm.
það er ei von, því draumur dregur
dásætur æ um yðar leið.
En það er opinn annar vegur,
þá endar þetta dýrðar-skeið.

Yfir þèr bölvun eilíf vofir,
óhreina, munað-kæra sál!
það er ei furða, þó þú sofir,
þegar þèr skemtir ekkert tál!
þú, sem að sofnar sætt á kvöldin
í synda nautn og hálum draum';
dvalarheims mjúku doða-tjöldin
dilla þèr vært i gleymsku straum'.

Ei færðu tíma til að gráta,
tárið er dæmt af kinnum þèr;
þú mátt æ til að leika, og láta
lypta þèr upp af synda-her; —

»gleðin, sem býr í gullnum skálum,
guðdómlegt yndi í kossa leik,
þú svæfir önd í ástar málum,
annars er jörðin snauð og bleik.«

Það hjálpar ei, eg heldur tala
við hjörtun, sem að skilja mig;
líðið með mèr til ljóssins sala
lágum frá jarðarheimsins stig;
þèr þekkið mig, sem á í æðum
eldíngaheitan logastraum,
runninn af fjarrum himna hæðum
híngað til mín í lífsins glaum.

Opt gekk eg fram með ægis-sundi
ólgandi þar sem báran sveif,
og vindur hart af háum lundi
hálf-visnuð laufin niður reif;
og laufin fèllu' á lagar öldu,
liðu þar að, sem geisla sló
út yfir sæ, og snöggt þar dvöldu,
síðan allt út í myrkrið fló.

Er ekki lífið eins að skilja? —
örlaga berumst vèr af straum'
dýrðlegum eptir drottins vilja
dauðans í miðjum öldu-glaum',
þángað sem guðdóms geislinn sendir
glampandi ljós á veikan reyr;

og þar er lagður lífsins endir,
hann ljómar snöggvast við, og deyr.

Því hvað er lífið? Lángur draumur?
Lángur fyrir oss, er sjáum skamt;
en annað kveður andans straumur,
æfinnar stund er skammvinn samt;
fallandi tár í tímans hafi;
tindrandi dögg á lífsins meið;
særokin perla úr svörtu kafi
sveifluð af vindi á löndin breið.

En þessi perla! Ljúfi ljómi,
lystur þig drottinn geislum á!
Lifandi dögg á lífsins blómi,
ljúft er að skoða þig og sjá!
Sumstaðar myrk af sorgar bárum,
sollið er jarðarlífið ól;
sumstaðar glæst af gleði-tárum
glæddum af æðri og betri sól!

Fegurðar upp í heiminn háa
hreinskilin allra stígur sál;
en þángað kemst ei falsið fláa,
friðrofans önd nè lundin hál.
Eins og í speigli endurljómar
ólgandi bára lífsins þar,
og á regnboga hvolfum hljómar
hvað sem á jörð ei skilið var.

Himneskra meyja hendur bæra
hörpur, og gullna strengi slá;
marmara brjóstið mjallartæra
munarheims ljóma slær sèr frá;
en athugið það, að undir lifa
elskandi hjörtu, trú og hrein;
yfir þeim fíngur Skuldar skrifa
skínandi lof á Síngastein.

Svo þegar lifir hugans heimur
hverfulu táli lífsins fjær,
þá stendur opinn þessi geimur,
þrúðbjörtum stóli drottins nær;
þar blómgvast æ í þýðum gróða
það sem af hjarta plantað var;
aldreigi visnar ástin góða,
alltaf hún grær og lifir þar.

Þar ljómar sól í skærra skrúði,
en skínandi jarðar röðull hlær;
aldreigi gengur geislinn prúði
grádökkvum sævar öldum nær;
máttugir andar himins hneigja
heilagan frið af dómsins stól;
vonlausar engar þjóðir þreyja,
þar er hin rètta frelsis sól.

Ó hversu mjög um alla daga
út hefir runnið manna blóð!

Við hefir skolfið svanhvít Saga,
sárkvalin fjöld er dreyrann óð!
Ó hversu margt hún má ei rita
morðheitum staf á gullið spjald!
Feigðin og sverðin feiknum lita
foldar-veg jafnt og sólar-tjald!

Fornaldar þjóð, sem fast í anda
frelsisins leítar jörðu á,
ókomins tíma stoðir standa
stöðugar þínum feðrum hjá!
Ókominn tími fornöld felur,
fornöldin býr í dimmum hjúp;
hún geymir margt, sem af sèr elur
andlegan styrk um lífsins djúp

Svo hermir taflan, gulli grafin:
»glepjandi ljóminn heimsins fer,
munaði og táli veilu vafinn,
velktur í glæstum synda her.
Upp yfir það er heiður hafinn,
heiðurinn aldrei syndin lèr;
hann er af nautn og hljómi tafinn,
hans því að veröld önnur er.«

*B. G.*

## Fyrr og nú.

Þitt sakleysi, það er týndur gripur,
Þinna kinna nú er fölnuð rós,
Brosið þitt er syndarinnar svipur,
Sjónar þinnar döpruð eru ljós;
Illa smyrslin bæta roðann blygðar,
Blæja glituð feimni, sem er misst.
Dýrar perlur tárin hreinnar trygðar,
Tjón það fegrar engin prjálsöm list.

Silkið þína svívirðíng ei dylur,
Snjóhvítt líníð verður dökkt á þèr,
Dauða og rotnun gröfin glæsta hylur,
Gleðin uppgerð sem þinn harmur er;
Viðurstygð, er keyptra kossa læti
Koma á eptir hræsnisfullum grát,
Syndar óvit er þín ofsakæti,
Örvæntíngar þinnar rínglað fát.

Sá eg þig í sakleysinu ljóma,
Sólin brenndi þinn hinn fagra lit,
Varstu í dalnum blómið allra blóma,
Blekkti þig ei heimsins prjál nè glit,
Liljan hvíta, himindöggin skæra
Hreinan, sem þinn vættu meyjarfót.
Sýndust mèr af sálu þinni læra
Sólarfögrum himni að brosa mót.

Fyrr í þinni fátækt auðug varstu
Fegurð búin, líkt sem dygðar hjúp,
Hulin tötrum hjarta flekklaust barstu —
Himinperlu varpstu í sjávardjúp!
Hvernig ertu hröpuð, stjarnan bjarta!
Heiðum niðraf þínum dýrðarstig?
Rósin fagra! náði naðran svarta
Næmu biti svo að eitra þig?

Hríðin kalda, döggin lopts mun lauga
Leiði þitt, en ekkert mannlegt tár;
Á þèr hvíli himins líknar auga,
Harmi þrúngnar síga láttu brár;
Lokkum slegnum, höfði grátnu hneigðu
Hans að fótum, öll sem græðir mein,
Glæstu skrúði, gulli og perlum fleygðu,
Guði skína fegurst tárin hrein.

*St. Th.*

---

## Venus og Freyja.

Eilífð blá í endalausum geimi
úngum svalar guða-heimi,
bjarminn skín um mæra morgunstund;
máninn kveður skýja-beltin bláu,
burtu flýr af stjörnutjaldi háu,
þegir fugl í þèttum mýrtus-lund.

Blærinn andar blítt frá vestursölum,
blikar engin dögg á neinni rós;
engin lilja fjalls í djúpum dölum
dagsins þekkir furðu-ljós.

Föbus reis úr fjarðar dökkum bárum
fögrum úrgur geisla-tárum,
aldrei lýsti sólin slíkan dag!
Allt í sama augnabliki dundi,
unnir kváðu, fiskur lèk á sundi,
vindur þaut og vakti gleðibrag;
þruman umdi þýðum orgels hljómi,
þeytti lækur dögg á gráan stein;
fuglar kváðu blíðum barna-rómi,
brýndu nef á mýrtus-grein.

Eins og spegill allur sjórinn þandi
ægidúkinn fram með landi
unz hann hvarf að yztum sjónarhríng;
laufið skalf í lèttum himinvindi,
ljósið skein á bláum fjalla-tindi,
sólin breiddi unað allt í kríng.
Álfur smár í luktu lótusblómi
lypti höfði upp af mjúkri sæng,
fljúga vildi móti munarhljómi,
mátti samt ei hreifa væng;

Fyrr en hún af svölum suðurs öldum
sveif á gullnum ægis földum,

hún, sem lætur heimsins æðar slá;
risu ótal rósir upp í dölum,
rauður bikar lypti döggum svölum,
fögrum dropa fuglar bergðu á.
Venus reis og vakti munar-yndi,
veröld skein í nýjum dýrðarheim;
harpan griska saung í sælum vindi,
Sappho vakti ástar-hreim.

En við norðurs yztan seguldróma,
aldnar þar sem bárur hljóma
dimt og þúngt við dökkvan ara-stein;
þar sem sól á sumrum má ei deyja
situr stilt og himinborin Freyja,
gullinblæju faldin, hvít og hrein.
Engin læti ástir þínar boða,
eigi hljóma gullin sorgar-tár;
en þau skína mær í munar-roða
mjúk við hveldar augna-brár.

Fram að austurs unaðbjörtum straumum
undin rökkri og geisla-draumum
lítur þú og kannar kynja-djúp;
æ þú eptir dimmu hlustar hljóði,
hyggur vonarklökk að liðnum Óði,
sem er klæddur köldum dauðans hjúp.
Þín er ástin þagnar treyst í dróma
þúng og stöðug innst í hjartans rót,

þótt hún glymji ei, nè heyrist hljóma
heilög nein við guða-blót.

Enginn kann þinn ættarbálk að telja,
undrum rokinn geisla-jelja
hjúpast hann í himindimmri nótt;
því er ástin unaðrökkri vafin,
yfir dag og sólargeisla hafin,
andar sætast, þegar allt er hljótt.
Hægt í mánans töfra-geisla glitrar
glaðast auga undir meyjar-brá,
og á munni munarkossinn titrar
meðan hjörtun bæði slá.

Mun þig ekkert mannlegt líta auga,
myrka þótt um himinbauga
þenji andinn mikla meginsjón?
Nei, þú unir eilífðar í djúpi
ódauðleikans falin geisla-hjúpi,
hafin upp á hæstan dýrðartrón.
þaðan hvelfast himinreistir bogar
hauðurs til með eld og dauða-blóð,
meðan lifir mey, og ástarlogar
mega glæða skáldsins óð.

Bíddu, Freyja, aptur kemur Óður
austri frá með nýjan bróður,
afl og þrek í svásum saungva hljóm.
Venus dó, og djúpt í öldu-glaumi

dvelur hún, í fjarrum alda straumi,
hvíta gyðju hylja visin blóm.
En þú lifir efst við segulleiti,
ástin vermir jökulkaldan stig —
meðan norræn meyja kann þitt heiti
mun hún elska, og nefna þig!

*B. G.*

---

## Lausavísur.

Grundin vallar glitruð hlær,
Glóir á hjalla og rinda,
Sólarhalla blíður blær
Blæs um fjallatinda.

---

Látum skotið fari á flot á fagran græði,
Vindur lotinn varpar mæði,
Valla er brot á Ránarklæði.

---

Blundar Rán á beði köld,
Á bláa stirnir lána,
Blikið frána um blíðast kvöld
Breiðir hyrnan mána.

Feigð um vogar dimma djúp
Dirfist ei að kreika,
Túngls við loga í hvítum hjúp
Hafsins meyjar leika.

Armur þinn um háls mèr hverfi,
Hlýra blossi rósin þekk,
Lofnar minni, ángurs erfi
Eg í kossum þínum drekk.

---

Æskuhrygð er einsog mjöll á apríls degi,
Á augabragði einu hún hjaðnar
Óðar enn fyrir sólu glaðnar.

---

Þó þú aumkvist yfir mann,
Er ángur sorgin vinnur,
Mest þú aumkva ættir þann
Til engrar sem að finnur.

*St. Th.*

---

## Selmu mál

eptir Ossian.

---

Stjarna ósorgar
Aðfarandi,
Logskær leiptrar þú
Lágt í vestri,
Skör þín gullhærð
Við ský losnar,
Fetum glæstum
Yfir fjöll þú líður.

Hvað á láglendi
Líta viltu?
Roki Ránar
Er í ró vaggað;
Heyrast úr fjarska
Fossa dunur,
Niður brimboða
Á björgum fjærri.

Flökta flugur
Um fagra völlu,
Saunglandi í sveimum
Síð á kvöldi;
Hvað viltu skoða
Þú hið skæra ljós?
En þú brosir
Og á burtu snýr!

Að þèr fagnandi
Flykkjast unnir,
Lauga ljósfagra
Lokka þína.
Kveð eg þig hljóði
Himingeisli!
Hug Ossians,
Hefjist ljómi.

Og albjartur
Upp hann rennur,

Lít eg hollvini
Heljargengna;
Finnast á Lóru
Frægra svipir,
Opt sem endur
Í árdaga.

þar Fíngáll,
Fram of svífur,
Líkur þeyþrúngnum
þoku mekki,
Standa umhverfis
Ítrir kappar,
Gráhærður Ullín
Glæstur Rýnó.

Alpín sætastri
Saungrödd gæddur,
Mínóna óðdís
Ástartrega;
Ó hve þèr vinir!
Eruð breyttir,
Síðan Selmu
At sumbli vorum.

þar vèr af kappi
þreyta knáttum,
Sem vorvindar
Á völlum úti,

Er þeir um hlíðar
Hraðir svífa,
Og veik strá
Fyrir vindgusti
Endrum og eins
Útaf leggjast.

Fram sveif Mínóna
Í fegurð sinni,
Augum grátþrúngnum
Á grund festum,
Hreifðist vindköstum
Haddur svanna,
þeim, er af fjalli
Fleygðust ofan.

Glúpnuðu hugir
Hers oddvita,
Er hún snjallan nam
Saung að hefja;
Leiði Salgars
þeir litið höfðu,
Svefnhús Kolmu
Ennar svanbrjóstuðu,
Sætrómaðrar,
Er sitja knátti,
Aum, einmana
Á eyðifjalli.

Þeim hafði svanna
Salgar heitið
Feginsfundi,
En fármyrkur
Grúfði grímu, —
Grátraust Kolmu,
Hryggrar á heiði
Heyri lýðir.

KOLMA.

Nú er nótt komin
Of nipt einmana,
Hjálparvana á heiði,
Bylur hvín í björgum,
Beljandi foss
Straums í gljúfur steypist.

Ekkert byrgi
Aumri skýlir
Í hörðum hríðar skúrum;
Stend eg á bersvæði
Bana gefin,
Ein í víti veðra.

Kom þú máni!
Undan mökkvaskýjum
Brennið blys nætur!
Leiðar ljós
Mèr lýsið þángað,
Er minn sjafni sefur.

þar hann af veiðum
þreyttur liggur,
Og óbentur álmur
Honum hjá —
En hundar móðir.
Blaðra kappa kríngum.

Við berg þar brunar
Um breiður mosa
Elfur, ein eg þreyi,
Ymja stormar,
En straumar belja,
Heyrist ástarrödd engi.

Hví dvalar Salgar
Heit að efna
Frægur fjallkappi?
Hèr er bergið
Og björk ið sama,
Hèr er hið fossandi fljót.

Hèztu um nóttu
Híngað koma,
Hvert er Salgar horfinn?
Flýja vildi eg föður,
Flýja bróður
Með þèr mikillátan.

Hafa frændur
Í fjandskap vorir,

Átt og illdeilum
Lángan aldur,
En okkur saman
Úngum ástir runnu.

Þagnið um stund
Stormar hvassir,
Þagnið straumar stríðir,
Svo heyrast umhverfis
Hljóð mín kunni,
Kærs á vinar vega.

Hvarflar þú villur,
Hèr em eg, Salgar!
Til þín kallar Kolma;
Hèr er bergið
Og björk ið sama,
Svanni Salgar þreyir.

Hví frestar þú
Hingaðkomu?
Ljósar frá mildum mána,
Glampar á fljót
Í fögrum dali,
Klettabrúnir birtast.

Sè eg hann hvergi
Á hamra gnýpum,
Nè rakkar undan renna,
Með fegins frètt

Að fari hinnig,
Bíð eg ein og ángrast.

Hverjir á heiði
Við hlið mèr liggja?
Unnusti og barmi
Báðir saman!
Mèr ástvinir
Mínir svarið; —
Engin þeir Kolmu
Andsvör veita.

Ansið mèr,
Eg er einmana,
Hrolli hrjáð
Hugar kvíða;
Æ þeir liggja
Lífs andvana;
Blóðgir eru benlogar
Eptir bardaga.

Hví minn Salgar
Hlýri vóstu?
Hví lèztu Salgar
Hlýra veginn?
Ykkur ástfólgnum
Unnag báðum,
Hvað skal eg ljúfum
Til lofs inna?

Fríður varst þú
Á fjalli að líta,
Stálklæddra meðal
Stríðkviðjenda;
Hann var í orrustu
Ógurlegur.

Hlustið á hljóð mín,
Hlýðið máli
Mínu, þèr munar
Megir dýrstir!
Þeir við þegja,
Muna þögn brugðið, —
Ísköld, ísköld,
Ástvina brjóst.

Þèr af háklettum
Heiðarfjalla
Vakandi á tindum
Veðurnæmum,
Halir helgengnir
Hljóð of sendið,
Mælið, ó mælið
Munka hræðast.

Hvert eruð þèr
Til hvíldar gengnir?
Hverjum í helli
Hárra bjarga?

Heyrast ei náir
Í næturvindi
Nè hálfköfnuð
Hljóð í stormi.

Hèr mun eg grátin
Um grímu sitja,
Og árgeisla
Ángruð bíða.
Liðinna vinir
Leiði reisið!
Unz Kolma kemur
Standi kuml opið.

Líður sem draumur
Líf mitt burtu,
Hví skal eg einmana
Eptir þreyja?
Hèr er mèr uppi
Við elfarhamra
Hátt glymjandi,
Hvíla búin.

Þá er svartnætti
Svífur yfir,
Og hvassviðri,
Um heiði blása,
Skal svipur minn
Í svali standa

Og ástvina
Andrán trega.

Mun vegmóður
Veiðimaður
Hljóð mín heyra
Úr húskofa,
Ógn og unun
Í einu fánginn;
Þá mun eg sætum
Saungum harma,
Er eg allshugar
Unna knátti.

Svo kvaðstu Mínóna
Mærin rjóða,
Tormans dóttir,
Tár oss hrundu,
Því of Kolmu sök
Klökkir vorum;
Þá kom með hörpu
Hróðrar smiður
Ullín og óð
Alpíns flutti.

Yndi var Alpíns
Ómi hlýða,
Andi Rýnós
Var eldgeisli,

En þeir hvílt höfðu
Í húmi grafar;
Heyrðit Selmu sjót
Saungva þeirra.

Horfinn var Úllín
Heim af veiðum
Eitt sinn áður
En ítrir fèllu.
Heyrði hann er halir
Á heiði fluttu
Sætan saung,
Sorgum blandinn.

Hörmuðu þeir
Hníginn Mórar
Manna mestan
Fyrir mold ofan;
Hans var hugur
Sem hugur Fíngáls,
Eimnir sem Oskars
Ángurvaðill.

Fèll hinn fólkdjarfi,
Faðir syrgði,
Fylltust saknandi
Systur augu,
Augu Mínónu
Ástartárum;

Vagnborinn Mórar
Víf nam gráta.

Vatt sèr gullbjört
Frá gígju slætti,
Úllíns, sem máni
Mær í vestri,
Er hann á sig veit
Úrgar skúrir,
Og skör skínandi
Skýjum sveipar.

Hrærðag með Úllín
Hörpustrengi,
Var hafinn þá
Harmasaungur.

RÝNÓ.

Slotað er stormi
Og steypiskúrum,
Mildt er miðdegi;
Ský um lopt leysast,
Of leyti græn
Hvarflar hverful sól.

Geyst úr gili
Niðrí grýttan dal
Veltur mórauð móða,
Ununar ómi

Elfur niðar,
þó heyri eg sætari saung.

Rödd er það Alpíns,
Hins óðgöfga,
Liðinn harmar hal,
Lotinn af elli,
Augu þrútna
Sollnum sorgar lindum.

Hví þú Alpín!
Hinn óðsnjalli
Hvarflar einn um heiðar?
Stynur sem vindur
Á viðum úti,
Sem unn við eyðisanda.

ALPÍN.

Hrynja tár mín
Of hölum liðnum,
Kveð eg látnum
Til lofs, Rýno!
Gjörfulegur
þú á gnýpu stendur,
Fríður í flokki
Fjallborinna.

Muntu þó sem Mórar
Til moldar hníga,

Klökkva mun halur
Of kumli þínu,
Þig munut fjöll
Framar kenna;
Ýr þinn óbentur
Mun eptir liggja.

Fljótur varstu, Mórar!
Á fæti renna,
Sem um háheiði
Hindar kálfur,
Og volegur
Sem vígabrandur;
Bræði þín var bylur,
En benjavöndur
Eldíng æðandi,
Ægði rómur
Þinn, sem vaxandi
Vatna niður,
Sem þúngt þruma
Þrymji í fjarska.

Hnigu margir
Fyrir hjörfi þínum,
Brunnu þeir í báli
Bræði þinnar,
En er heim komstu
Úr Hildar órum,
Bjó þèr of brúnum
Blíður friður.

þá var svipur þinn
Sólu líkur,
Eptir regnskúrir
Ofan fallnar,
Mildur sem máni
Um miðnætti,
Sem vötn dala
Í væru logni,
Eptir afstaðin
Ofsaveður.

þraungt er nú hús þitt
Herglötuður!
því skjótmæld er
Skrefum þremur
Ógnvalds gröf
Öllum meiri;
Gnæfa grásteinar
Á grund fjórir,
Nè mörk meiri
Á moldum þínum,

Barlaus björk,
Blaktandi strá,
Er hávaxin
Hvína í vindi,
Sýna vegmóðum
Veiðimanni

Mikill hvar Mórar
Und moldu hvíli;
Svo er lýðfrægum
Lágt und höfði.

Þig grætur Mórar
Móðir engi,
Nè mey mjúkum
Munar tárum;
Liðin er sú,
Er þèr líf veitti,
Nè mær lifir,
Morglans dóttir.

Hver fer hinnig
Hokinn við staf,
Hvítur af hrynjandi
Hærulokkum,
Grátlúnum augum,
Gremi þrúnginn,
Hrumur, skjálfandi
Í hverju spori?

Þar er faðir þinn
Fallinn Mórar!
Er þig einkason
Eiga knátti;
Frètti hann frægð þína
Í fólkorrustum,

Hví frètti ei faðir
Af feigð sonar?

Grát þú mög mætan
Mórars faðir!
Grát, en hann heyrir
Hljóð þín eigi.
Þúngur er dauðra
Dúr í moldu.
Lágur liðinna
Lýða bólstur.

Heyrir raust þína
Hann aldreigi,
Nè við föðurrödd
Framar vaknar,
Nær mun daggeisli
Dauðum skína,
Og blundi sofenda
Brugðið láta? —

Far vel öðlínga
Íturlaukur!
Sigurmögnuður
Á sverða láði;
Munattu í fleindrífu
Framar standa.
Nè meir þitt
Í myrkviði

Bláskrúð böðvar
Birtu kasta.

Lifir bur engi
At látinn þig,
En lofleg
Í ljóðum minníng,
Uppi mun nafn þitt,
Meðan öld lifir;
Mun hún af Mórar
Miklum heyra.

Urðu harmsfullir
Halir allir,
En Armín öndu varp
Erfiðlegast;
Mundi hann síns sonar
Sáran dauða,
Er úngur beið
Aldurtila.

Fregna nam Karmor,
Fylkir nærstaddur
Glymjandi Galmals:
Hví glúpnar Armín?

Er grátsefni?
Gjallir hljómar
Heyrast hljóðfagrir,

Hugfángandi;
Stígur svo stundum
Af stöðuvatni
Ljúf lognþoka
Og læðist yfir
Hljóðlátan dal,
Himindöggvum
Gljáum grasknappar
Grænir fyllast;
þá kemur eygló
Alskínandi,
Hverfur þíð þoka
þegar í stað.

Hví er Armín
Öldum gyrðrar
Gormu gramur
Af gráti hljóður?

Emk ángraður,
Nè allítil
Runnu rök
Til rauna minna;
Sonarlát
Sízt þú tregar
Karmor! nè dýrrar
Dóttur missi.

Lifir Kolgar
Hinn lýðhrausti

Mær Anníra
Meyja prýði,
Hefjast limar
Á hróðurbaðmi,
En ætt Armíns
Á enda stendur.

Myrkur Dára
Er þinn moldbeður,
Þúngur höfgi
Und þremi svarðar,
Nær muntu blundi
Bregða þínum,
Og sætrómuð
Af svefni vakna?

Hvínið haustkólgu
Hvassir byljir!
Blásið um heiði,
Beljið, fljót! í gljúfrum,
Ymjið, ofviðri!
Í eikum mínum,
Renn þú, máni!
Fyrir rof skýja,
Bleikri ásján
Láttu bregða fyrir,
Og hræðilega
Hugskotsaugum

Birtast bölnótt,
Er börn mín dóu.

Þegar Arindal
Ítursterkur
Og Dára dó
Hin dagbjarta;
Dóttir mín
Dára en fagra,
Fögur sem máni
Of Fúru lýsi,
Hreinni hvítari
Himinmjöllu,
Ljúf sem ilmvindar
Ánganreifir.

Þinn var Arindal
Álmur sterkur,
Fleinn flugglaður
Að fundi sverða,
Augnráð ógurlegt
Sem ægisþoka,
Skjöldur sem skruggu
Ský í stormi.

Kom Armar
Hinn ímunfrægi
Og únga mey
Ástar kvaddi.

Vara láðskrautuði
Lengi synjað,
Er vina vonir
Vaxa þóktu.

Gramur var Erað
Oðgals niður —
Hafði Armar hans
Hlýra vegið;
Kom hann dulklæddur
Sem drafnar mögur,
Frítt var fley hans
Á flóði að líta,
Hadd bar hann hvítan
Hógværð á svip.

Meyjanna blómi!
Máls hann vakti,
Þú hin ástfagra
Armíns dóttir!
Veit eg allskammt
Á ægisdjúpi
Bjarg með apaldri
Annarsvegar,
Og álengdar
Aldin glóir;
Þar bíður Armar
Úngrar Dáru

Skal eg hans þángað
Heitmey færa.

Fór auðspaung,
Nam á Armar kalla;
Bergmál eitt
Veitti brúði svör:
Armar unnusti,
Hinn ástkæri,
Hví þú hug minn svo
Hnípinn skelfir?
Heyr ángurhljóð
Arnarðs niður!
Er aum Dára
Á þig kallar.

Hló þá Erað
Og heim rèri,
Grát nam gullskögul
Gjöllum klökkva,
Kallaði föður,
Kallaði hlýra:
Armín! Arindal!
Engi kemur
Dáru að hrífa
Úr helgreipum.

Hljóp Arindal
Af heiði ofan,

Byrðar veiðifángs
Bar á herðum;
Honum við hlið
Hremsur glumdu,
Runnu rakkar fimm
Með rekk gráir.

Stórlátan Erað
Hann á ströndu leit,
Tók bölvísan
Og við björk reyrði
Læðíng harðsnúnum
Húðaróla;
Stynur hann með storma
Stríðum gusti.

Rèri Arindal
Undan landi,
Hugðist dáðfrægur
Dáru að bjarga,
Kom Armar
Í ógnareiði
Skaut gaflaki
Gráfjöðruðu.

Saung það sökkvandi
Í míns sonar hjarta;
Fjellst þú Arindal
Eraðs í stað,

Stöðvaðist óðar
Öldu sveipur,
Bur minn beztur
þar und bjargi dó.

Gráta máttu, Dára!
Grimmum tárum,
Bróður bogar þèr
Blóð við fætur;
Kólgu hjörtur
Er á kletti sprúnginn.

Varp sèr Armar
Í ægi djúpan,
Dáru að duga,
Eða deyja sjálfur,
Sveiflaði svipvindi
Af sjávarhömrum —
Sökk hann í sæ,
Nè sást framar.

Og hljóð heyrðust
Í húmi nætur
Á dránga dimmum
Dóttur minnar,
Æpti án afláts,
Æpti hástöfum,
Hve mátti eg böli
Bót of vinna?

Gjörvalla grímu
Eg við græði stóð,
Sá mey mæra
Í mána skýmu,
Hvein hvassviðri,
En hretskúrir
Á háfjalli
Harðan dundu.

Mæddust hljóð meyjar
Fyrir morgun litlu
Og sorgarkvein
Smá þagnaði,
Sem hin andsvala
Aptangola
Í græntóar
Grasi kafnar.

Dó hún af ekka
Yfirkomin
Og einmana
Við Armín skildi;
Horfinn er mèr að hjaldri
Hreystidugur,
Lofnar er láni
Ljúfu farið.

Þá ofviðri
Yfir geisa,

Og norðanhregg
Í hafróti
Lætur holskeflur
Við himni rjúka,
Sit eg á hömrum
Hátt glymjandi.

Horfi hryggur
Á Heljar dránga,
Og svipi sè,
Er sezt máni,
Barna minna
Um bjarg reika.
Og hörmug tvö
Hníga að rúnum.

Hví af meðaumkvun
Hvorugt mælir?
Meguð framnliðin
Föður kenna:
Mjög er eg Karmor
Kífi þrútinn;
Míns móðtrega
Eru mikil rök.

Kváðu svo Barðar —
þá var bragar gengi, —
Er hilmir hlýddi
Hörpuslætti

Ítrum árdaga
Óðartölum;
Þyrptust þjóðskatar
Þá af fjöllum
Háum að heyra
Hljóðsnild fagra.

Kunnu þeir lof
Kónu* röddu, —
Þeim, er mestur var
Mærðar tíva;
En mál-sverð mitt
Mæðir elli,
Og hugarþrótt
Hnigna tekur.

Heyri eg stundum
Hróðrar smiði
Liðna, en minni
Mitt er þrotið;
Heyri eg árin
Að mèr kalla
Á fleygi ferð
Farandi hjá:

Hví Ossían
Óðspjöll flytur,

---

* Ossian sjálfur er stundum kallaður „Kónu rödd.“

Er hann bráðum mun
Byrgjast moldu?
þá mun engi
Óðsnillíngur
Lofstír hans
Á lopt halda.

Rennið þèr ár
Hin undurdimmu,
Færa mèr fagnaðar
Flugskeið yðar,
Gíni Ossian
Grafar faðmur,
því afli hans
Öllu er farið,
Og bragar burir
Til beðs gengnir,

Mun óðar míns
Eymur heyrast
Sem ofviðris
Eptirþytur,
Á umflotnu
Eyðibjargi,
Ömurlegu,
Í úthafi;
þar í myrkum
Mosa þýtur

Sèr álengdar
Af auðu djúpi
Hervíkíngur
Hlyni blakta.

*St. Th.*

## Belzoni.*

Upp af heitum Arabíu söndum
eldi fáð og gullinbröndum
miðrar jarðar máttug rennur sól.
Rósir dofna röðuls fyrir veldi,
rennur sviti ljóns af bleikum feldi,
laufin skrælna lágt um jarðar ból.
Himin sjálfur hvítum verpist ljóma,**
heyrist enginn sævarrunninn blær;
sefur allt í sólargeisla dróma
svita-vörmum dauða nær.

Rennur Níl með regindjúpum straumi.
röðuls vafin geislaflaumi,
öldnum fram að Alexanders stað;
þreytir æ að þrúðgum norðursölum

* Frá Padua, ferðaðist í Afríku og dó í Benin 1823.

** Himininn í Egyptalandi sýnist hvítur fremur en blár, af ljósmegninu; („plutôt blanche qu' azurée" segir Roziére, sem var í för með Napóleon).

þúngt frá Memphis pálmavöxnum dölum,
flytur nýjar öldur öldum að.
Geislar brotna lopts í ljósum hjálmi,
lypta myndum upp af jarðar beð;*
heyrist eins og hljóð í víga-málmi,
hetjur fær þó enginn sèð.

Stendur einn hjá öðlíngs öldnum haugi,
undir heitum sólar-baugi,
yfir hafið salta svifinn braut;
svitinn döggvar sólarbrunninn vánga,
sverð og knífar traust við beltið bánga;
sá er vanur margri þúngri þraut.
Hauginn brýtur hvern á fætur öðrum,
hörðum armi rekur þræla lið;**
hvæsa gin á ægum eiturnöðrum
illa gestsins komu við.***

* Fata Morgana og ýmislegt ljósgeislabrot kastar myndunum, svo þær sýnast í loptinu; menn sjá í loptinu það, sem er einhvurstaðar lángt í burtu á jörðu. Fata Morgana, sem í rauninni er ekki annað en afarmiklar hyllíngar, sèzt svona í suðurlöndum.

** Belzoni var ógurlega stór, og neyddist til að berja Arabana, sem hann fèkk til að vera með sèr að grafa fornmenjarnar upp, þeir voru ýmist svo latir eða svo hræddir, að þeir lètu ekki undan nema höggum og hótunum.

*** ɔ: því hann truflaði þær upp úr fylgsnum sínum. Í þessum rústum er fullt af höggormum og illkvikindum.

Svo nam áður margur stillir standa
stríður þar með reidda branda
yfir þræla aumum meginsveim.
Engin stuna grimma hjartað hrærði,
höggið reið, og þreytta lífið særði,
ótal margur gekk til Heljar heim.
Aumíngjanna þar á bleiku baki
brugðin svipa risti jöfrum níð.
Napurt brosti norn und stjörnuþaki.
Nú er komin önnur tíð.*

En þú vakir, eilíf heimsins Saga,
ár og síð, um nótt sem daga,
unz þín kemur ægidóma stund.
Djúpt í tíðar dimmum megin-bárum
dróttir svá̈fu, huldar mörgum árum,
deyddar fyrir napri níðíngs mund.
Saklaus dreyri sífelt gín og hljóðar
sólartjalds að háum dýrðarsal;
sífelt þjóta tímans öldur óðar,
opna það sem nóttin fal.

Dýpst hann seig í moldu hulda hauga,
heljarstirða neyddi drauga

* Allir pyramidar, obeliskar etc. eru bygðir af ánauðugum þjóðum, sem lètu líf sitt fyrir níðíngsveldi Egyptalands konúnga, millíónum saman.

upp að rísa móti mærri sól. —
það eruð þèr, sem níðíngs hörðum höndum
hjugguð þjóð með stolnum ríkisvöndum:
hvur það vald á hendur yður fól?
Hvur gaf yður veg og voldugt ríki?
Var það tíminn, eða drottins orð? —
Nei! þèr sjálfir, líkir börðu líki,
liðnu niðrá kvala storð!

þèr hafið reista þrúðga feiknasali,
þvíngað hamra, fjöll og dali
yðar hróðugt undir grimdar boð.
þèr hafið reist úr jarðar dimmu djúpi
dánarmerki, sveipuð undrahjúpi,
svo þau jafnvel sýndust himna stoð.
»Hèr ligg jeg, þú viltur vegfarandi,
veiztu nokkurstaðar merkin slík?«*
Nei, því hvurgi nema á Söru sandi**
sveipar naðran konúngs-lík.

Hvar eru nöfnin? Hvar er frægðin? — Farin!
Frægðin rík og þjóðin barin,
allt er dáið! allt er gengið heim!
Hvurki þá nè yður nokkur nefnir;***

---

* Cf. Ozymandias.

** Sandarnir á Egyptalandi eru framhaldið af eyðimörkinni miklu (Sahara). Konúngarnir voru smurðir og eru órotnir enn (Mumiur).

*** „justissimo casu obliteratis auctoribus“ (Plin.).

nú til dómsins yður Saga stefnir —
megið þèr svara megindrottni þeim? —
Nárinn þegir; þúngt í dauða hvílir
þrælsleg hönd, er áður svipu skók;
og þar dóminn eilíf bölvun ýlir
yfir gleymdum lagahrók.

*B. G.*

---

## Balthazar.

(Daniel. cap. V.)

Rennur heilög Evfrats á
enn um heitar blóma-grundir;
nú eru farnar fornar stundir,
frægð er öll af elli grá.
Böðvar eldar Babílónar,
bjartir svannar, ljósa fjöld,
sætar veigar, symfons tónar
sitt hafa lifað æfikvöld.

Sveiflaðu þèr um öld og ár,
öndin mín, að horfnum draumi,
þegar sat í gleði-glaumi
gylfi drembinn, tignarhár.
Ótal ljós á borðum brenna,
blikar vín í fagri skál;
öldur geisla ólmar renna
allt í kríng um gull og stál.

Balthazar að sumbli sat
sjálfur fyrir borði miðju,
gladdist vel af glaðri iðju,
gullinveig og dýrum mat;
þúsund aðrir þjóðmæríngar
þengils fylgdu gleði-sið;
brúðir ljósar, bjartir hríngar
brostu skærum logum við.

Inn voru borin aldin ker,
áður helguð drottni sönnum,
og frá Júða ríkum rönnum
rænt af Něbŭcădněsars her.
Gylfi þeim af gullnum skálum
góðar veigar drukkinn saup.
Hlátur reis í heiðnum sálum
heilög þau að tæma staup.

Beygði margur svíri sig,
svannar gáfu koss og þáðu;*
ljósin geislum gullnum stráðu,
gleðin lèk á efsta stig.

---

* Í Babílon sat kvennfólkið allsnakið í samsætum; allir kvennmenn voru skyldir til einusinni á ári að leggjast með útlendum mönnum, í musteri Venus Militta (Herodot, Strabo; Voltaire trúði því ekki, en það er margsannað; og Bruce segir það sè enn í Abyssiníu). Eptir þessu voru allir siðir í Babílon, og þessvegna er Babílon kölluð „hóran mikla“.

Fyllti salinn hörpu-hljómur,
hvergi skugga yfir brá;
alvarlegur drottins dómur
duldist glöðum syndum hjá.

Nóttin leið í helgum hjúp,
huldi sjó og jörðu mæra;
stjörnur lètu ljómann skæra
leiptra fram um himindjúp.
Fölur máni á myrkar leiðir
miðrar nætur geislum sló;
úti stóðu aldnir meiðir,
aldan reis og hneig og dó.

Lofðúngur þá lypti að vör
logagyltum, helgum dómi;
fyllti hann vínsins fagur ljómi.
fremst er hjörtun gerir ör.
»Hlægir mig af helgum brunni
helgan teiga gleði-sjó«
sagði gylfi, og sèr að munni
setti skál, og kalt við hló.

Þá um salar silkitjald
sýndust bleikir fíngur líða,
eins og þegar ormar skríða
yfir rósar bikar-fald.
Handar svipur huldar rúnir
hallardyrum yfir reit;

sukku niður buðlúngs brúnir,
bliknaði kinn, er það hann leit.

Leiddist öllum ljúffengt vín,
ljósin föl í stikum glóðu;
myrk og þögul merkin stóðu:
:M.E.N.E:T.E.K.E.L:V.P.H.A.R.S.I.N:
Hræddur loksins sagði sjóli:
»sá er les mèr rúnir þær,
næst skal tignar standa stóli,
stilli Babílónar kær.«

Feta náðu frægir inn
fjölvitríngar konúngs allir,
reyndir og í ráðum snjallir
reyna vildu lærdóm sinn.
Enginn mátti orðin þýða,
öll var speki heimska þá.
köld og stirð varð lundin lýða,
líkt og klaki vötnum á.

Þá gekk drottníng döglíngs inn,
döpur mælti slíkum orðum:
»þegar ríki rèði forðum
reginefldur faðir þinn,
þá var Daníel hans að hendi,
helgum gæddur anda með;
honum vizku háa sendi
hann, er enginn getur sèð.«

þá var Daníel þángað brátt
þengils til í salinn leiddur;
þess var hann af þengli beiddur
að þýða orð um dimma nátt.
Heit sitt aptur hilmir tjáði,
hann ef þýddi ægimál.
Aptur Daníel inna náði —
öðlíngs skalf í djúpi sál:

»Eigðu sjálfur auðinn þinn,
alla tign í ríkisveldi;
yfir þèr dóminn drottinn feldi,
dauðinn leikur þèr á kinn.
Föður þínum frægð og ríki
friðarherrann mildur gaf;
ræsir sökk í djöfla díki,
drambi sínu feldur af.«

»Hneigði aldrei sína sál
Sebaots fyrir helgum orðum;
eins og dýr á eyði-storðum
ólmaðist hann, en týndist mál.
Svo hefur þú af illum anda
ofmetnaði þínum fyllzt;
ritaðar þessar rúnir standa,
ráðníng þeirra mèr ei dylst.«

»Veginn ertu á vogar skál,
vísir hár, og lèttur fundinn;

dyrum fyrir er dauðastundin,
drambið lækkað, töpuð sál.
Milli Persa og Meda er ríki
mærri skipt af drottins hönd;
þú ert ei spurður, þèr hvert líki —
þannig ræð jeg orðin vönd.«

Feigur jöfur hèlt sitt heit.
huldi Daníel tignarklæði;
konúngsdrambsins ógnar æði
ei hinn næsta morgun leit.
Sömu nótt var vísir veginn.
veltist blóð um gullna rönd;
ljósin dóu, lögð og slegin,
lýgi ei ritar drottins hönd.

*B. G.*

## Æskan.

Man jeg þig, ey,
þar er unnir rísa
háar, hriggbreiðar
að hömrum frammi;
þar stóð jeg úngur
og ekki hugði
út fyrir boða
að breiðum sandi.

Tíndi jeg blóm
á túni gróanda,
möðru mjallhvíta,
og mjaðarjurt;
lèt jeg ljósgræna
leggi fífla
brugðna saman
og band mèr gerði.

Hljóp jeg kátur
í klukku minni,
bar jeg brosandi
blóm í hendi;
hugsuna laus
og himinglaður
stóð jeg að minnar
móður knjám.

Gekk jeg um grundir
og gígju sló —
sól rann í ægi
á sumarkvöldi;
lítt var jeg lærður
að list þeirri,
þó var jeg ánægður
sem jeg Orphevs væri.

Myndaði jeg stafi
og marga dráttu,

og liti lagði
á ljósum spjöldum;
engi mig lærði,
en jeg í lund gladdist
sem jeg Appelles
yfir stigi.

Smíðaði jeg skip
og sokkavefstól,
hús og eyki
og ótal fleira;
þá var jeg glaður
yfir þeirri dýrð,
sem jeg Völund
vinna mundi.

Mèr kendi faðir
mál að vanda,
lærði hann mig
þó jeg latur væri;
þaðan er mèr kominn
kraptur orða,
meginkynngi
og mynda gnótt.

Mèr kendi móðir
mitt að geyma
hjarta trútt
þó heimur brygðist;

þaðan er mèr kominn
kraptur vináttu;
ástin ótrauða
sem mèr aldrei deyr.

Lá jeg í leiðslu
og ljúfum draumi
við bjartar unnir
á blómreiti;
blítt var lopt,
og bláir straumar
kríngum gullengi
glaðir lèku.

þá var mèr líf
sem liljureitur
mitt í munkyrrum
marar straumi;
sætt og sætlega
svaf jeg í vöku
sem uppheims guðir
á Ólymps tindi.

Seint jeg sá
að sólar herra
mèr gaf foreldra
fremri öðrum.
Sofa nú bæði
í svörtu djúpi,

moldu vorpin
á Víkur sandi.

Seint er nú að sakna,
seint er að gráta;
kaldur ertu dauði,
og klökknar eigi;
áfram skal halda
og ekki þreytast!
Lýstu mèr, Saga,
með ljósi þínu!

*B. G.*

---

## Hret.

Fölnuð er liljan, og fölnuð er rós.
fölnað er himinsins blessaða ljós;
hnípinn er skógur og hnígið er bar,
hám sem að áður á björkunum var.

Stynja nú biturri stofnar í hríð,
stirðnaður lækur í blómlausri hlíð;
himininn fær ei að fella nein tár —
frosti hann grætur, það hagl er og snjár.

Eins ertu þornuð af augunum mín,
ástsæla táranna lind, sem að skín
annars í heiminum huggunarrík;
himnanna drykk ertu sannlega lík!

Man jeg það áður, um æskunnar tíð,
ofan um kinn streymdi báran þín fríð!
Hún var so beisk, en so himnesk og tær,
huggaði mig, og hún var mèr so kær!

Viðkvæma, barnlega vætti hún kinn,
var það hinn einasti huggarinn minn;
út streymdi sorgin, og inn streymdi ró;
eymdin og reiðin í hjartanu dó.

Allt eins og dögg vætir ilmblómin úng,
ofan þau hneigjast að jörðunni þúng,
rísa so aptur í eyglóar yl,
upprisin lypta sèr himinsins til:

Döggin svo harmanna brauzt mèr um brár,
blikandi æskunnar huggunartár;
þá var jeg úngur; jeg gekk mig og grèt,
gráturinn sorgina hverfa mèr lèt.

Nú ertu þornuð, mín ljúfasta lind!
Líður nú stormur af snjóugum tind!
Fáein ef skyldi nú falla mèr tár,
frjósa þau strax, eins og hagl eða snjár!

Lífsins á heiði í helkulda blæ
huggun jeg enga af tárunum fæ.
Döggin er huggandi, þó hún sè þúng,
þýðir upp líf, meðan rósin er úng.

Gerðu mig aptur sem áður jeg var,
alvaldi guð, meðan æskan mig bar!
Gefðu mèr aptur hin gulllegu tár!
Gefð' að þau verði' ekki hagl eða snjár!

*B. G.*

## Florents.

Þú Florents borg, sem fagrar bárur lauga,
þar furðuliljur engilbjartar standa,
þar gullinn blómi skín í uppheims anda,
og eygló suðræn vermir himins bauga!

Þú listaheimsins lind og ástarauga,
sem lipra fæddir jafnt til munns og handa,
og barni þínu bauðst sín ljóð að vanda
um bjarta sól og myrkur Heljar drauga!

Þú stendur fræg við Arnos unaðströnd,
og eptir liðnum horfir frægðar degi,
þá Dante kvað hinn dimma undurhljóm!

þú hraktir skáldið heimsins útí lönd —
sú háðúng mun þèr fyrirgefast eigi,
og ekki þó þú værir voldug Róm!

*B. G.*

---

## Heim.

þú sem yfir skýjum skín,
skafla faldin köfum,
fögur ertu, foldin mín,
fjarri í norðurhöfum!

Glymur æ af garra saung
glæstur jökultindur;
báran kveður breið og laung,
beljar norðanvindur.

En á sumri í djúpum dal
döggvar hreinar glóa;
og í fjalla svörtum sal
sýngur fögur lóa.

Rís úr hafi himinsól,
hásetinn úr rúmi;
lángar að kanna laungu ból.
lètt er valla húmi.

Aptur kemur hlaðinn heim,
herrans ríkur gjöfum,
þegar sólin gráðs við geim
geislar lengst í höfum.

Sína kyssir sjónum hjá
sæll í flæðarmáli;
sólin geisla slær þau á,
signar himinbáli.

Kannske tvö á grænni grund
gángi upp til fjalla;
sèr hvað hefur sína stund,
sona' er það með alla.

Blárra tinda blessað land
blessun hljóttu mína!
Ætíð verji eyja band
unaðsali þína!

*B. G.*

## Napoleon.

Frá helgri Róm, til Isters ægistraums,
og yzt til Hesperída blómgra grunda
lèk hljómur fyrr, af heljarfossum unda,
sem gleðja Seif í sælu himindraums.

Og örninn breiddi, í Ólymps gullinfeldi,
ógnbjarta vængi kríngum ríkisgeim,
á Capitolio sat hans vea veldi,
valbastar Cæsars reyrt með orrahreim.

Og aldir liðu; örninn mikli hvarf,
og aptur leið frá reitum jarðar dala
til helga ljómans glæstra guða sala,
því eymd og dauði fast að foldu svarf.
Þá drúpti hann í grátnum guða blundi,
og gegnum drauminn hvössum augum sá,
að börðust menn, og blóðið rauða dundi
blóðþyrstra dverga höndum runnið frá.

Og aldir liðu; örninn mikli leið
frá uppheims sal til jarðar vengis niður,
og hristi gullið himinvængja fiður,
og glaður sat á grænum Signu meið.
Þá glóði auga geystum undir brúnum
í grimdar tign um blóði sollið frón,
því Saga laust á skjöldinn rauðum rúnum
með reginljóma: »Cæsar Napoleón«.

Um tíu ár á tignum ríkisstól
tindraði sprotinn, sterkri valdinn hendi;
sem jörð' og himin þrumu-blossi brendi
blikaði skær og mögnuð frægðar sól.
Við Eylau og við Austerlitz nam drynja
alvaldar boð, og Hildur logum spjó,

unz einnig mesta hetjan varð að hrynja
helkaldri fyrir norn, ó Waterloo!

Sem margir hundar ferlegt fjallaljón
fóthvatir sækja, og skjótt á hælum elta,
tönnunum ota, og títt með ofsa gelta,
hræddir og grimmir þó við slíka sjón:
svo æddu dvergar eptir sigurvaldi,
og ótal rèðu smárra drengja lýð,
og djásnið loksins hjuggu hjálms af faldi,
og heyja kváðust almennt þjóðastríð!

Um árin sjö sat örninn mikli þá
einmana, kríngdur Ránar breiðu djúpi,
sveipaður fornum sigurveldis hjúpi,
og sjónir hvesti dimmum hömrum frá.
Hann vissi glöggt hvað lá í Skuldar skauti,
hvað skína mundi þeim er aldrei deyr;
og loks hann flaug til himins upp frá hlauti,
og hristi frægðarvarman þrumugeir.

Og aptur hann frá Ólymps háum tind'
albjartur sveif, í gullnum fjaðrahami,
glaður og tiginn, alltaf enn hinn sami:
eldínga-ljómi skein frá himingrind.
Hvað mátti nöðru sveit við fríðar fætur,
og fjörráð grimm af eitursætum barm?
Hann kátur benti' á bjartar leiptra rætur,
og brosti aptur við Napoleons arm.

þá augað snara hýrnaði og hló,
er hinnstur beður fleinadrottins vendi
aptur í Signu skaut frá Engla hendi,
helgastur dómur, yfir saltan sjó.
Á ódauðlegum, helgum rústum rísa
rómverskra hetja verk og sigurhrós!
Frá Gallíu strönd til fjarrar foldar ísa
fimbulblikandi skín það norðurljós!

*B. G.*

## Eptir Meleager.

þèr til Hadesar
Heliódóra!
Færi eg dreypifórn
Dýrrar ástar,
Heitar, hrynjandi
Hvarmaskúrir.
Og á marggrátnum
Moldum þínum
Dreypi eg saknaðar
Sárum lindum;
Aumlega, aumlega
Syrgir ástvinu
Meleager
Fyrir mold neðan,
Sú nè ástarfórn
Akkeron hrærir.

Ó hvar ert þú
En harmdauða?
Lífs míns ljúfur kvistur,
Grimmur, grimmur
Greip þig Hades,
Vorblóm orpið auri.

Bið eg þig klökkur
Á knè fallinn,
Alfrjófa jörð
Allt lífgandi
Að þú sárt syrgðan
Svanna faðmir
þínu mjúkhlýja
Móðurskauti.

*St. Th.*

---

## Vofan.

Svartur svipur
þig í svefni eltir,
Hart þèr á hælum,
Húmi sveiptur;
Firðir fráleik
Eru fætur þínir,
Senn mun þig grípa
Grimmleit vofa.

Ángistar sviti
þèr af enni drýpur
Og hrædd önd
Í hálsi blaktir;
Bröltir þú á beði
Og í blundi stynur,
Rekinn rammlega,
Ræð eg þèr að vakna.

Lít hve um ljóra
Ljómar sunna;
Ertu eltíng nú
Undan sloppinn?
Fylgir þèr svipur
þótt sjáir eigi,
Sjálfan sig flýr
Seggja enginn.

*St. Th.*

## Á sjó.

I.

Fer eg yfir flötinn blá,
flýg á lèttum bárum,
máni horfir mig einn á,
mænir lopt í tárum.

Bátur vaggar öldum á
einsog fugl í sárum,
skína í lopti skúrir grá,
skvettist froða af árum.

Sè eg fjöllin himinhá
hreykja kollum gráum,
einsog ský þau eru að sjá,
en með rótum bláum.

Gnauðar mar við gamla strönd,
gullnum þeytir skvettum,
út nú rèttir Ægir hönd,
ymur í fjarðarklettum.

II.

Engi veit maður það manna
í marinum djúpa,
svölum í salkynnum hranna
hvað sælöndin hjúpa.

Nè mig þó fýsir að fara,
þó flóði jeg unni,
lángt o'nað þjótandi þara
þistils á grunni.

Eða þau óðöl að líta,
  sem útselir byggja,
og votur að versteinnum hvíta
  svo væran að liggja.

»Bleik skulu berast að ströndu
  bein mín hin skæru,
Ægir skal upplypta höndu
  úr unndjúpi væru.

»Máni af himni skal háum
  hvílast á bárum,
horfa á beinin, og bláum
  svo blika á gárum.

»Vindar er velta með þúnga
  votum haföldum,
minnist þið mannsins hins únga,
  sem mar er í köldum!«

Heyri jeg djúpan í djúpi,
  hve dauður svo kveður,
en máni sig hylur nú hjúpi
  og háskýin veður.

þráir hann þrávalt hinn sjúki,
  svo þýtur að sandi,
hann situr bleikur í brúki,
  og brosir við landi.

Lángar til lifandi manna,
en leiðist í húmi —
slíkt er nú, sveinar, að kanna
í svölu því rúmi!

III.

(Eptir Byron.)

Og eg hef unnað
þèr hinn ógndjúpi,
ægir, allt
frá æskustund:
úngum var það yndi
öðru meira
sem bóla þèr á barm
að berast mót himni.

Lèk eg í bernsku
að brimi þínu,
og hló þá hátt
hugur í brjósti;
opt og ógurleg
ægis dóttir
ungum ógn vakti,
það var unan samt.

því að eg var
sem eg ver um skildi.

og barn þitt, mar,
of borinn væri:
trúði eg því bárum,
og að barmi þèr
hallaði höfði fús,
sem eg hallast enn.

*G. B.*

## „Vitas hinnuleo me similis, Chloë!"

(með frumhættinum.)

---

Hví er nú komið svo? Chlóe, þú forðast mig
einsog hindkálfur, er óttast hvern golu þyt,
leitar um lángar heiðar
móður sinnar á mörgum stað.

Því að ef þýtur í þrútnuðu brumi vor,
eður um aldinbeð ormurinn lítill skreið,
skelfur hann allur einsog
nötra hríslur á nöktum hól.

Og þó reyni eg ei ólmur sem tígrisdýr,
eður æðandi ljón aldur að lyfja þèr:
hættu loks móður, meyja,
mannbær lengur að fylgja nú!

*G. B.*

## Til úngrar stúlku.

Þú ert úng á æskuskeiði
og í fögrum blóma þín,
enn þèr brosir björt í heiði
blessuð sól og fagurt skín.

Eg er líka úngur, meyja,
æska mín þó döpur er,
aldrei láti unan deyja
únga guð í brjósti þèr!

Þitt hið frjálsa augað únga
unan mèr og gleði býr,
burt það hrífur bölið þúnga,
úr brjósti sorg um stundu flýr.

En þèr meira ei má segja
af æfi minnar leyndum veg,
guð þèr veiti gleði, meyja,
gleymdu því, er sagði jeg!

Leiktu þèr í lífsins yndi,
láttu dapran vera mig —
ó, að mætti eg, meyja, vindi
mótlætis æ verja þig!

*G. B.*

## Hugurinn reikar víða.

Sat eg inni einn og sá
eina um loptið blíða
tindra stjörnu, helga, há;
hugurinn reikar víða.

Suðaði blær í meiði mjög,
mundi eg læki stríða,
heima aptna, hvítan lög;
hugurinn reikar víða.

Mundi eg bernsku mína þá
mökkum húmið blíða
huldi grund og himin blá;
hugurinn reikar víða.

Einhvern þá eg á mèr fann
undarlegan kvíða,
sem að hjartað hrífa vann;
hugurinn reikar víða.

*G. B.*

---

## Drykkjuvísur.

Yndi er að horfa á himinljós,
er húma fer,
en fegra að búa í faðmi drós,
og gleyma heim og gleyma sèr.

Yndi er við mjöð að una vel
um aptanstund,
en glaður drykki eg dauða og hel.
ef biði varir blómlegt sprund.

Víst er að skærra vínið er,
enn vötnin tær,
en fagurskærri finnast mèr
þó brúnaljós, er brosir mær.

Við skulum drekka vínið þá
á vina fund,
en meyjar augu muna blá
þó olla vora æfistund.

*G. B.*

---

## Anakreon.

Eigi menn vita hvaðan hann kom eða hver var
hans faðir,
því að í þoku og reyk þetta er hulið oss nú:
en það vita allir að þar sem að gróa þèttar á grundu
rósir og vaxa um váng vínberin fögur á grein,
þar sem með sætum söngvi að una á sumrunum
fuglar,
þar við hin þíðustu blóm, þar er Anakreons gröf.

*G. B.*

---

## Lóan.

(gömul saga.)

---

Einn um haust í húmi bar
hal að klettasprúngu,
úti kallt þá orðið var,
öngvir fuglar súngu.

Sá hann lóur sitja þar
sjö í klettasprúngu,
lauf í nefi lítið var
og lá þeim undir túngu.

Og hann sá að sváfu þær
svefnamóki þúngu,
læddist inn og einu nær
inn í klettasprúngu.

Vorið eptir enn hann bar
einn að klettasprúngu,
visin laufblöð láu þar,
lóur úti súngu.

Eptir sat hún ein í kleif,
ekki lauf við túngu,
dauðinn að henni dapur sveif
djúpt í klettasprúngu.

Burt hann fór, en bera kíf
börn í hjarta úngu
fyrir þá, sem lítið líf
lèt í klettasprúngu.

*G. B.*

## Vísur.

Nescio qua natale solum dulcedine cunctos
trahit et immemores non sinit esse sui.
Ovidius.

Einhver þúngi þrýstir huga mínum
þokumökkar hjúpa sálarrann,
svo var, Ísland, ei í dölum þínum,
yndi eg þar og djúpa gleði fann,
mèr skemti alda undurniði sínum
áin blá um fagra sveit er rann,
því hjarta mínu og huga það var yndi
að hlusta á vatnanið í þagnarlyndi.

Eg man á fróni mikla jökultinda
meginfrelsi ætíð bjó á þeim,
eg man í gili um grasivaxna rinda
glaða bunulæki draga seim,
og opt um haust eg heyrði dapra vinda
hvína í strám og þjóta útí geim:
mèr fannst þá sem að fold og himin styndi
fyrst að horfið væri sumaryndi.

Og yður helgu himinstjörnur bláu,
er heima frá mèr numinn starði eg á,
sem tindrið bjart á blíðu hveli háu
og berið þíðan ljóma himni frá,
þèr margopt gleði mína og harma sáuð,
nè mun eg aptur slíkum fögnuð ná —
eg yður man eg mun ei síðan gleyma
hve mæra geisla lètuð ofan streyma.

Hèr einnig lít eg yður fagurt skína
yfir höfði mèr um næturstund;
en æ, þèr vekið aðeins harma mína,
svo öngan má eg stundum festa blund,
einsog mèr gjörið allt í draumi sýna,
er mèr skemti bezt á feðra grund:
því hvað svo vekur söknuð margan manna,
sem minning þess, er skapanornir banna?

Mèr leiðist hèr að leita í gömlum blöðum
að ljósi því, sem eitt und himni býr,
að sitja hèr á suddaþoku stöðum,
þars sljófa prýði andinn dapur flýr,
og ekkert mikið mætir huga glöðum,
nè manna sál að æðri verkum snýr,
þars vötn ei helg af himinbjörgum falla,
nè heyrist guð í náttúrunni kalla.

Betra væri um breiða jökulskalla
með bjargelfum að kveða frelsissöng,

að heyra fors úr hamragljúfrum falla
og höfuðskepnur þjóta um undirgöng:
svo vildi eg dvelja daga lífsins alla.
mèr dægrin skyldu þá ei verða löng,
því heilög rödd með hamrabúum dvelur
og hljómur inndæll sig í vötnum felur.

Hèr sè eg önga búa fjallatinda,
nè heiðavötnin djúp og fagurblá,
og augu mín því opt í móðu synda,
er eg fjalladali minnist á,
og þá eg heyri þíða aptanvinda
þjóta gegnum beykilaufin smá:
þá man eg ætíð einsog sögu forna
æskugaman mitt hið burtu horfna.

Þinn líka máni man eg silfurljóma,
er mændir þú af himinhveli blá,
og enn í hjarta æ þær raddir hljóma,
er eg fann í brjósti mínu þá,
þó aldrei fyllist auðnan dapurtóma
unz aptur má eg jökulbúngu sjá,
og horfa frjáls af háum tindi fjalla
á hreina læki, sem úr giljum falla.

*G. B.*

## Til túnglsins.

Fölleiti máni,
er í fyllíngu
móðu hjúpaður
mænir af himni,
og silfurljóma
ljósdökkum
dreifir á fold
draugalega.

Galdra þú mèr gal
þá er góðir sèu,
hjúpaðu mèr
hug í gleymsku,
láttu mèr hverfa
hinar leiðu myndir,
sem bláshjörnur dofna
fyrir bjarma þínum!

Sem reykur þunnur
rjúki um himin,
dregur móðu ský
fyrir mána kringlu,
og dökkar stundum
dapra skýrendur
silfrljóma
seiðbúa himins.

Eins veður mèr nú
andi í skýjum,
og daprar opt
dimmu rendur,
sem blóddropar þeir
er ei burtu nást
hrífa mèr allt
úr huga yndi.

*G. B.*

## Horfin æska.

Margar horfnar myndir vakna
mèr í sál, en gleði dvín,
yndis hreins í hug eg sakna —
hvar er bernsku sælan mín?

Einsog þá í þoku rísa
þráða fjallatinda sèr,
eins úr gleymsku gröfum rísa
gleðistundir horfnar mèr.

Eg er samur eigi lengur,
ó, minn guð, eg til þín bið,
hljómlaus mèr í hjarta strengur
helgum óm ei tekur við.

Áður helgar himinraddir
hljómuðu þrátt í brjósti mèr,
unz mig sæla saklaus kvaddir,
sífrosið nú hjartað er.

Örvínglan mig ætíð hrífur,
er eg hugsa um stundir þær,
yfir mig dimma döpur svífur,
dauðansótti hjartað slær.

Að eg skuli æfi minni
allri svona hafa spillt —
en, guð, þú ei af gæzku þinni
gjöra nokkurn auman villt!

Ó, að eg gæti grátið núna
sem grèt eg mjög í bernsku fyrst:
ó, að eg fengi aptur trúna,
er eg löngu hefi misst.

Gef mèr, herra, gleði tára,
gráturinn er rauna bót!
hann mun bæta bölið sára,
bana sem er undirrót.

*G. B.*

## Malvína.

Ó, Malvína, yndisblóm,
ástarós í dalnum!
hví er háa höllin tóm,
hljótt í gleðisalnum?
Ó, Malvína, yndisblóm,
ástarós í dalnum.

Ó, Malvína, elskuð mey,
öllum fegri kvinnum!
hví er fjör í augum ei,
enginn roði á kinnum?
Ó, Malvína, elskuð mey,
öllum fegri kvinnum.

Ó, Malvína, ertu dauð?
ó, hin græna torfa!
unan hvarf, en ástin bauð
augum til þín horfa.
Ó, Malvína ertu dauð?
ó, hin græna torfa!

Ó, Malvína, yndisblóm,
ástarós í dalnum!
— hún er dauð, því höll er tóm,
hljótt í gleðisalnum!

ó, Malvína, yndisblóm,
ástarós í dalnum!

*G. B.*

---

## „La Reine des Fleurs.“

(Blómadrottníngin.)

Hún mænir svo blíðleg hin bjarta
og blómlega þíðeyga mær,
ást er í auganu svarta,
og unan á vöronum hlær —
hún máske ber harm þó í hjarta,
úr huga sem útrýmt ei fær.

Hún stendur í fegurð hin fríða,
sem fönnin á tindonum há,
eða sem blástjarnan blíða
blikandi nátthimni á —
segið mèr, sönggyðjur lýða,
hvar slíkt fyrr eg inndæli sá!

*G. B.*

## Vísur.

Hví viltu forðast,
fagra mær,

þann sem allt
þèr einni býður?
stari eg til einkis
útí dimmu,
svifin ertu burt
einsog svipur liðinn!

Veiztu þá ei að eg ann þèr
öllu meira,
heitar enn blóm
himindöggu,
heitar enn unnir
ægi bláum,
eða lífsandi
lopti hreinu.

Kondu því,
og kossi þínum
svalaðu meið
að moldu bundnum,
svo að hann visni ei
sem á vorum blóm
skrælnuð hníga,
nema hreinar döggvar
kyssi þau árla
kossi lifs!

Kondu, þá er dimman
dökka hylur

fold og allt
í faðmi sínum!
kondu, þá er í strám
stynur vindur —
undir skal hann taka
með ástum vorum.

En, ef eigi,
muntu úti finna
viðinn græna
að velli hníginn:
innst hafa rætur hans
ormar nagað —
gráttu þá hinn dána
góðum tárum!

*G. B.*

## Stælt eptir Burns.

Flý eg nú þángað, sem grasið ei grær,
gnauðar við kletta freyðandi sær:
unnustinn nýi ná
nú þinni týju má,
glaður þèr flý eg frá,
falskasta mær!

Geð þitt og blíðu, ef guma þú lær,
grátur mun dapra þín augun skær:
lof þá ef láta mig
líta ókáta þíg,
greitt skal eg gráta þig,
grunnhygna mær!

*G. B.*

## Til B. G.

Hina stund er hugsa eg um,
hám er undir fjöllonum
einn á grund við gnýpur hár,
græðissund og unnir blár
vænu undi eg vífi hjá —
varla blund eg festa má.

Hvíta mundu mèr um háls
menjagrundin lagði frjáls,
svafði und í hjarta hrein,
hýr í lund og bætti mein,
um aptanstund með augu blá;
úti dundi skrugga þá!

Sviptur sprundi eg nú er
einn í lund og gleði þver,
í dauða stundi hin dýra mey,

drósar fundi næ eg ei;
böl mun þundi búa hel,
Braga kundur, farðu vel!

*G. B.*

## Á reið um Flóann um nótt.

þessa eg lengsta lifði nótt,
ljótir eru flóar,
að mèr hafa alltaf sótt
armir vætukjóar.

Neðan ormar nöguðu mig
og nörtuðu fætur mjóar,
en mèr á höfuð settu sig
saurrugir vætukjóar.

þó að mjög sè ljótt og leitt
að lenda í sortaflóum,
verra í heim eg veit ei neitt,
enn verða fyrir kjóum.

*G. B.*

## Vísur.

Blástu, vindur um beran tind,
blástu lyndur illa
þó hnjúka strinda meiðir mynd,
þú mátt ei rinda spilla.

þó að sandi þeki land
þussa andi napur,
þeim skal ei vandur vinna grand
veðra gandur dapur!

*G. B.*

## Eptir Saffó.

I.

Síginn er máni,
sjöstjörnur horfnar,
mið er nótt,
milda vekur
blessuð blíðustund
í brjósti mèr
löngun lífshlýja,
leiðist nú
konu kvennlyndri
á köldum beð.
úngri, ástríkri,
einni þreyja!

II.

(Undir nafni úngrar stúlku.)

Móðir góð, eg get það eigi,
gengur hvergi vefurinn,
löngun, ást og ljúfur tregi
láta sturlað huga minn.

Únga stúlku Afrodíta
allri svipti hugarró,
mèr og sveinsins myndin hvíta
meginsöknuð lángan bjó.

*G. B.*

## Er laufin fèllu.

Hví svo dimmt og dapurt ert,
dökka trè, og heldur bert?
hám á greinum hánga lauf
hnípin, visin nú og dauf,
þar sem fyrr í fögrum blóma
fuglar hófu gleðiróma.

Hví er önduð unan mín?
opt eg sat í skugga þín,
þegar máni mildur skein
mær í gegnum lauf á grein,
titrandi af himni hám
hreinum geislum, silfurblám,
leikandi um lima þína,
löngun alla vakti mína.

Hvað er þíðum orðið óð?
aldrei heyrði eg fegri ljóð
kveðin hörpu hreina við,
held'renn sætan munaðsklið.

er með unan sèrhvert sinn
sveif í gegnum huga minn
þegar vindur ástarómi
andaði í laufablómi.

Hví eru fölnuð fögur blöð
fyrir skemstu brosa glöð
græn eg sá þau greinum á,
grímu þegar húmi brá:
bifast hógleg úti æ
ángandi í sumarblæ,
ginna að sèr gauka smá,
gaman hafði eg af þeim þá!

Æ, en sumrið er ei meir,
og á haustum lífið deyr;
haustið vakti harma mín,
haustið feykti blöðum þín,
einmana svo úti þú
eitt á grundu stendur nú,
og greinir um, mót sorg og sút
sem þú rèttir naktar út,
harðir vindar þrávalt þjóta,
og þær í sundur vilja brjóta!

*G. B.*

# Agnar

Á háum hersisgarði
hljómuðu gleðiljóð,
og margur maður starði
á mjöllu skærra fljóð:
því Hróar Helgu gipti,
sem helzt af meyjum bar,
hann öllum eiðum ripti,
Agnar fjarri var.

Glaumur var og gaman,
gestir drukku öl,
börðu bollum saman,
en brúðurin var föl:
föl í fegurð sinni,
fáir sinntu því,
því gleðiómur inni
allt var sölum í.

En úti í aptanskugga
yndi fjarri sveinn
hám að hallarglugga
horfði dapur einn:
og blóð úr benjum djúpum
á brjósti honum rann,
af hjarta og huga gljúpum
hann svo mæla vann:

»Nú grimmt er glaum að heyra,
  en glaður þó eg dey,
því hinztan hjarta dreyra
  þèr helga eg, dýra mey!
fyrst æfin á að dvína,
  eg ann í dauða þèr,
þó annar ást við þína
  una megi sèr.

»Það gæfumuninn gerði,
  hann gat hið únga fljóð,
á meðan svölu sverði
  eg svanna varði lóð:
og nú eru gjöldin goldin,
  sem gramir hugðu mèr,
er manni menja foldin
  svo marga blíðu lèr!

»Eg sè hve sæll hann mænir
  í svarta augnalind,
á meðan bana bænir
  eg bið í næturvind!
Ó, Helga, heyrirðu ekki
  hve hef' eg nafnið þitt?
en nú sest brúður á bekki,
  brestu hjarta mitt!«

Hann hnè, en horfði augum
  að háum gleðisal,

unz svart fyrir sjónabaugum
varð sverði beittum hal:
og yfir andlit honum
ángurljóma brá,
er sviptur sælu vonum
sárt hann brosti þá.

Svo lèt hann önd, en inni
í æztri gleðihöll
eg frá að blisin brinni,
unz bjarma rauð á fjöll:
nè öll að sögð er saga,
þó segðum glaumi frá,
því eptir átta daga
var annað þar að sjá.

Senn var svörtu faldin
sú hin reifa þjóð,
og hryggur halur aldinn
að háu leiði stóð:
því þar var leidd hin ljósa
og ljúfa mærin góð,
sem Agnar einn nam kjósa,
þó annar hlyti fljóð.

*G. B.*

## Gullid rauda.

Við Tindastól, þar bára blá
brotnar öldnum kletti á,
gnýpur mæna á græðissund,
Glúmur sat um aptanstund:
»gullið, kvað hann, get eg hèr
grafið í jörð, mig enginn sèr!«
Honum varð það heilla mein,
hretin börðu nakinn stein.

Glúmur hafði gengið í hól
Grímars undir Tindastól,
meðan logi lèk um grund,
loguðu fjöll og bárusund,
hafði hann rænt hinn dapra draug
dýru gulli og rauðum baug:
ágirnd knúði áfram hann,
opt hún tryllti betra mann.

Haugs hann búa höndu af
hringinn dró, en sem á kaf
draugur sökk í dimma storð,
dundu í jörðu þessi orð:
»þèr skal gullið, Glúmur, víst
granda, er þú hyggur sízt,
baugur skal verða að bana þèr,
bölvaður sèrtu hvar sem fer!«

Glúmur hèlt með gull á braut,
glaður að baugnum rauða laut,
hrakspár um ei hirðti par,
hugur að gulli fastur var:
vildi hann fjarri fyrða bygð
fela það, við nóga stygð,
þar sem vakir alda ein
öldnum fyrir bylgjustein.

Að sævarstapa stefndi hám,
er stendur yfir mari grám,
kleif upp bratta kletta slóð,
er krummi varla áður tróð:
ill hann fègirnd áfram rak
undir hið dökka hamra þak,
þar sem örn í hreiðri há
helgum steinum liggur á.

Starði mót hinn mikli örn,
moldar ei því vissi börn
sig hann fyrri sækja heim,
sjónir voru hvassar þeim:
og sem tryllti augnaráð
arnar þann, er hafði náð
gulli rauðu, bjargs við brún
bölvaði Glúmur orma dún.

Nè var ofan aptur fært,
aumur gat sig varla bært,

yfir kletta klúngur há,
kolblár undir sjórinn þá,
mörg og önnur ógnin þar.
eyðistöðva búin var:
húm var komið hnígin sól,
horfði máni á Tindastól.

Og að Glúmi síðan sveif,
sú er býr í myrkra kleif,
örvínglan, í arnar ham,
aumum vit og hyggju nam:
gulli viður glotti sá,
glaður tók því höndum á,
»fyrri læt eg lífið mitt,
enn ljósið aptur missi þitt!«

Svo hann dvaldi dægrin þrjú,
döpur mundi æfin sú,
knúði gullið hrörnuð hönd,
hrjáðist lengi sturluð önd;
unz af húngri hinn, er lá
hríngi likur gulli á,
örmagna með auðinn sinn
ofan steyptist hamarinn.

Og í djúpan sökk hann sjó,
síðan yfir gleymsku dró,
hvarf í ægi ægisglóð,
illa sótt — en nemi þjóð,

hversu auður ekki má,
eða nauðum varið fá:
gulli rauðu glæstur lá
Glúmur snauður í mari blá!

*G. B.*

## „Vindöld, vargöld."

Hátt gullu brandar hafs nær auðum geimi
og himna skulfu viður tjöldin öll,
öskruðu í rótum innst hin gömlu fjöll,
en ótal hnigu menn frá glæstum seimi —

þeir sem að börðust blóðgum móti sveimi,
blóðvætta dundu hin illu hæðnisköll,
sem ætíð svífa vígs um dapran völl
og virða lítt þó blóð úr æðum streymi.

En kondu ljós, sem lýstir helgri mildi
löngu fyrr enn heimur í auðnu varð,
og láttu blika lífs af fögrum skildi!

þá munu dauðans dimmar ógnir hverfa,
og dýrðin fylla það hið auða skarð,
er illir harmar oss að hjarta sverfa.

*G. B.*

## Vísur eptir Th. Moore.*

Aldrei skilið eina get eg
undarlega mótsögn þá:
ef að ann eg, giptst ei get eg,
giptist jeg, ei unna má.

Þó að öllu unnar glóða
öðru væri fegri ná,
hæg og blíð með hyggju fróða
hugum svinn og eigi flá;

Vitur stillt og væn að öllu,
vel þó kynni skemta sèr,
munaðshýr, en hreinni mjöllu,
hlítti jafnan einum mèr:

Þó að væri þetta sunna
þorns og allt, sem hugsa má,
henni skyldi eg heitar unna
heldr enn svo jeg ætti þá.

---

*) Thomas Moore er hið þriðja höfuðskáld enskt á þessarri öld, jafnaldri Walter Scotts og Byrons, en lifði þá mjög lengi, og dó fyrir fáum árum. Hann var hið bezta skáld, írskr að ætt sem Kormakr Ögmundarson, og er auðþekkt hin sama skoðun á giptingum í þessum vísum hans, sem hjá Kormaki, er hann vildi ei heldr eiga Steingerði, en aðeins minnast hennar í vísum sínum. Enda er og þetta eitt af æsku-kvæðum Th. Moore's.

Ástin þolir önga hlekki,
er hún bezt að sinni vil,
sæla jafnvel sæl er ekki
sè oss nauðgað hennar til.

*G. B.*

## Tvö kvædi eptir Th. Gray.*

I.

SIGUR OWEN'S.

Kveðum Owens hróður hátt,
hann ei skortir þrek nè mátt,
Hróðreks er hann ættarlaukur,
óðalsgrundar meginhaukur:
gulli rauðu of ei ann,
auði hvergi safnar hann,

* Th. Gray er einnig alkunnugt enskt skáld á öldinni, sem leið, og liggja þó ei eptir hann nema fáein kvæði, en öll ágætlega falleg. þau tvö, sem hèr er snúið, hefir hann þó ei upprunalega frumkveðið, en aðeins snúið mjög frjálslega úr fornri brezku (kumbrsku), sem nú er hvergi töluð nema í Wales, er fornmenn því og kölluðu Bretland. Fyrra kvæðið er ekki nema brot, og eptir skáld Owen's (Jóns?) konúngs Griffinssonar á Bretlandi á miðri 12tu öld, er barðist við norræna víkinga (ef til vill Svein Ásleifarson, sem segir frá í Orkneyíngasögu) frá Írlandi, Skotlandi og úr Orkneyjum. En hið síðara kvæðið á að vera miklu eldra, og er aðeins kafli úr hinu víð-

en að jöfra öldnum sið
ísturmálmi skreytir lið.

Lofðúngs sótti löndum að
liðið frægt úr þrennum stað:
utan fórn Íra þjóðar
ótal skeiðum vígamóðar,
norðan stefndi Skota skjótt
skipum búnum leiðardrótt,
og að austan enir stóru
Austmanna þá knerrir fóru —
ægilegt um ölduslóð
áfram geystist lagarstóð.

Óttalaus á óðalslóð
ægishjálmi faldinn stóð
Manar drottinn, höfuð hátt
hilmir bar að vígi þrátt.

---

fræga kvæði, er Bretar kölluðu Gododin, og sagt er að Aneurim hafi kveðið, höfuðskáld þeirra á 5tu eða 6tu öld og samtíða þeim Merlín og Taliessin; er það mjög lángt kvæði, sem enginn hefir enn skilið til hlítar, en Gray hefir aðeins snúið, eða heldr kveðið eptir litlum kafla úr því. Þótti hinum fornu Bretum svo mikið til þessa kvæðis koma, að þeir möttu hvert vísuorð í því á silfurpeníng; og, ef satt skal segja, þá var það þeirra „Bjarkamál hin fornu“ — en efnið í því átti að vera um stríð Breta við Engla og Saxa í Norðymbralandi, í því fylki, er þeir kölluðu Deira.

Upp var hafinn álma gnýr,
undan hvergi jöfur snýr,
djúpt í klettum dverga mál
dólg um vakti, ruðust stál:
urðu senn á sama degi
sundin rauð af benja legi,
þar sem fylkis fótum að
fallinn valur helveg trað.

Öðlíngs hvössum augum mót
ótal glóðu roðin spjót,
en fylkis undan feldum geir
flýðu síðan allir þeir;
í gras að bíta brögnum hann
bráðum einnig kenna vann,
flugartrauður ætíð enn
áfram knýði sína menn.

Mátti líta marga þar
meginsturlun, þar sem bar
flóttann yfir víðan völl,
var þá rofin fylkíng öll —
fèlt svo rauðu fallinn her,
flestum dauði svölun lèr.

— — — — — — —

## II.

### FALL HÓELS.

Ó, að eg væri elfur stríð,
ólgufors úr brattri hlíð,
dynjandi yfir Deirumenn,
deyða skyldi eg alla senn!

Of öruggann í æskumóð
unnu þeir á feigðarslóð
Hóel, vin mínn, kappa kon
Kjáns hins mikla beztan son:
Maddað aldinn aldrei hann
elfaglóðar biðja vann,
heim hann leiða blíða brúð
búna einum meyjar skrúð.

Í fjalldal Kattreðs fóru senn
fjórum sinnum hundrað menn;
tignarfesti hèkk um háls
hverjum guma Rínar báls,
aldrei fegra lið eg leit
lofðúngs mjög í kappasveit
rautt á brynjum glóði gull,
gumnar tæmdu hin skæru full
dýrra veiga munngát mætt
mjög var þá í skálum sætt.
Hlakkandi í hetjumóð
hèldu þeir svo vals að slóð:

en úr Kattreð aptur meir
aldrei síðan komu þeir,
nema Aron prúði og Kónan knár.
kappar óðu benjalár,
og jeg minnstur allra, er á
einn að lífa og gráta þá.

*G. B.*

## Kolbrún.

Brámáni skein brúna
brims of ljósum himni
hristar hörvi glæstrar
haukfránn á mik lauka:
en sá geisli sýslir
síðan gullhríngs fríðar
hvarma túngls ok hrínga
hlínar óþurft mína!

Kormakr.

Hvert var það fljóða, sem eg sá
mèr svífa um ánganstundu hjá,
svo fagurleit, en blökk á brá,
sem blis um geiminn víða?

Hrafnsvörtum lèk í lokkum hár,
ljósan um háls, um dökkar brár
tindrandi augu ástaþrár
eldgeisla sendu þíða.

Yfir mig brunnu björt og skær
brúnaljósin, er átti mær,
óg aldrei nokkur önnur fær,
þó enn sè leitað víða!

Svo var að líta ljúf og heið
lofnin hin skæra auðarmeið,
einsog hún kæmi ljoss af leið
úr lofða heim'num blíða.

Kulnað var að um Ýmis hold,
eldurinn falinn djúpt í mold;
mèr var að líta menjafold,
sem mjöll af himinboga!

Öll varst að líta helg og há,
hugurinn vermdist, baugagná,
þau er eg blisin blíðu sá
af brúna himni loga.

Andaði þá um eyru mèr
ómhlýjum blæ, er mætti þèr,
blíðviðri lèk í brjósti sèr,
sem blèsi gola um voga;

Og mèr í hjarta endur brann
eldurinn mær — um hyggjurann,
ó, þið sem vöktuð aptur hann,
und augna þíðum boga,

Ó, augu blökk, er brúna há
blikandi skinuð himni á,
og kolsvört undir blakkri brá
brunnuð í dimmum loga;

Ó, augu dökk, eg yður sá,
og aldrei síðan gleyma má —
eg nötra eins og nakið strá,
en næturvindar soga!

—

Mörg eru liðin árin ör,
eldur er minni, kulnað fjör;
en þau, sem særðu seima bör,
svanna augun þíðu —

þau eru enn í minni mèr,
og munu, hvað sem eptir fer,
unz móður hnígur málma grèr
að moldar skauti víðu.

Og er á vori sunnan sól
senda gjörir um bala og hól
lifandi geisla, guðs sem ól
gróðrarfoldin blíða —

þá lifnar enn hin aldna þrá,
aptur mig lángar þig að sjá
ókunnu vengi víða frá
að vegi mínum líða!

*G. B.*

## Finnr Magnússon.

Í einu brjósti
ek sák aldregi
fleiri forna stafi.
Alvíssmál.

Hljóðs bið eg enn,
sem endr um veitti
megindrótt
minnar þjóðar;
vildak aldin
um Ísagrund
hefja óð
öðru sinni.

Kveðk-at-ek nú
sem kváðum fyrr
ungir mjög
aldaspjöllum:
ber eg fornan
úr feigðar heim
borin drukk
bragna kindum.

Bið eg hljóðs
meðan bjartan of
flytjum feng
Fjölnis niðja,

meðan þess
í þundar miði
hróðr hefk,
er oss heill um vann.

Var-a glapmáll
hinn er goða fyrst
fornan heim
fór að kanna,
þá er lengi
við lægisströnd
drifin dögg
of dvalið höfðu.

Þá var hann ungr,
er á Ísafoldu
vakti fyrst
völvu forna,
og hann síðan
sinni mörgu
aldna rún
fyrir ýtum rèð.

Heyrða eg svo
að á helgu bergi
reist hann fyrst
forna stafi:
og þar varð
að Urðar dómi

bernsku brek
að bragna ráði.*

Svo nam að kvikna
þar er kunnir settu
storðar þing
á stöðvum fornum,
öldum kunnugt,
þar í ungri lundu
gneista gim
hins gamla týs.

Þá nam að frævast
sá er fróðr skyldi:
sá hann vítt og of vítt
um veröld marga,
og hann heyrði
þann er alheim ber
ymja hátt
hinn aldna við.

---

* Það er alkunnugt að Magnús faðir Finns heitins var hinn síðasti lögmaðr á Íslandi og hafði hann þá stundum son sinn með sèr til þings, meðan hann var barn. Eg heyrði Dr. Sv. Egilsson segja frá því að Finnr hefði þá helzt átt að hafa það sèr til gamans, að draga upp goðamyndir og ýmsa undarlega stafi með krít eða koli á steinunum við lögberg. En því var sagt frá þessu að það þótti síðan merkilegt, er Finnr var orðinn sá hinn mikli fornfræðingr, er hann síðan varð, og höfundr norrænnar goðafræði að nýju.

Barst svo Váfaðar
byri fram
um land og um lög
langa stundu,
er hann síðan
um alla fór
hindra hers
heima níu.

Nè það getum,
er hann gat að líta,
allt með öllu
fyrir ýtum tèð,
þá er hann
í hug um fór
fram um fold
að fimbulstöðvum.

þá er hann leiddi,
þann er lengi duldist,
lýðum fram
hinn liðna heim,
þars um glitrar
frá guði kynjað
eylíft ljós
í árdagsmóðu.

þá er hann sótti
frá salar steini

úr fræða lind
fornar veigar,
þars um geymir
gullin epli
Braga kván
að brunni lífs.

Og hann suðr
til Sólarfjalla
mikin lèt
muna hverfa,
þar sem Surts
með sviga-leifi
mengi mest
að móðu snýr.

Og þar fossar
undan sólu
áin mær
af Mánafjöllum:
en hann kunni
það er kenndi þjóð
gömlum þar
að gróðastraumi.

Þar sem gnæfði
yfir gandalandi
stór og sterk
á storðu fornri,

hins er um æfi
enginn veit,
Ammons mynd
í uppdölum Nílar.

En hann þaðan
um aldin mar
sótti sumbl
Suttungs niðja,
þaðan sem endr
í arnarham
andinn fló
af ægistöðvum.

Og hann mart
í miði fornum
fann það enn,
er færi hugðu,
er hann vestr
um vindhjálms brú
rendi hug
til Heimis dala.

Og svo rann
að ósi dauða
æfi fram
hins aldna hals,
unz hann austr
til unaðsfjalla

augum leit
að aptni lífs,

Og hann þreyttr
frá þrautum mörgum
móðr varð
að moldu hníga:
nú á góðs
í grænni bú
jörðu nár
hins jörmunfróða.

En sig upp
hinn endrborni
hugr hóf
að heimum þeim,
er hann eptir
um alla stundu
liðins lífs
of leitað hafði.

Nè það undrist,
þeir er æfi meta
manna mest
á moldarvog,
þó hann einn,
svo utan heima,
væri ei ávalt
öld í sinnum.

því að opt
er ítran gjörði
hróðug þjóð
svo heim að sækja,
þá var Finnr
í fimbulheim
að mæla við
Mímis höfuð.

Og varð eigi
þeim er ýta fræddi
auðkeypt allt,
svo er æfi manns:
nú þrumir græn
yfir guma látnum
Fróða grund,
hins goðum signda.

En hann sjálfr
með sælum æ
elr önd
í æðra ranni:
þar má Finnr
forna stafi
alda rök
öll um nema.

*G. B.*

## Nokkrar ferda vísur.

Gekk eg á gjálfri stokkin
Gylfa mar, en harra
fast óð reyndr í röstum
Refils andurr frá landi:
lagði hestr, þar er hristust
hlýr, fyrir skut hinn dýri
steinalátr og stræti
stafns Kaupmannahafnar.

Víst er að lengi lètum,
lands þá er stigum af sandi
meinvinnanda manna,
móð og víl fyrir róða:
skal eg sólviðum segja
sunds meir af för þeiri,
glaðir kvöddum þá góða
grund að Eyrasundi.

Liðum svo frá láði,
löng var stund ei þá mundu,
hjörva gnýs, en hurfu
hlíðar, bríkar skíði:
skriðs gekk fram um flæði
furu stafn, en Hafnar
sukku gömul fyrir gamla
grunn Haleyri sunnan.

Jór skreið, en bar bára,
brandasetrs frá landi,
Gestils fór Geysir rastir
geyst í saltið eystra:
en við anda sunnan
endr um Vífils lendur
austanvindr að öndri
ásar tók að blása.

---

Og leit eg enn hinn ægja,
öldum kunnan, fyrir sunnan
ógnar völl, er olli
oftjóni fyrr ljóna:
þar lá dauðr hinn dýri
dróttarvaldr í óttu,
getið verðr þess, og gætir
grundar, marga stundu.

Áðr hafði gjört hinn góði
grímu meiðr af reiði
ógnar storm þar er armri
ánauð vakti dauða:
þá er hann of sök sanna
sigr vann frelsi manna,
óx þá grára geira
gjöll, á Breiðuvöllum.*

---

* Breitenfeld við Leipzig, þar sem Gústaf Adolf fyrst barði Tillý og Austurríkismenn.

Sjálfr stóð slóðar Gylfa
Svía valdr of faldinn
ímun hjálm þá er ólma
ungr vann, brynjur sprungu:
og urðu öll að lúta
jöfra grunn fyrir sunnan,
rèð Guðstafi gnæfa
gunnfáni, þá hánum.

þá var enn og annar,
öngum glíkr að slíku,
fold laut fólka baldri,
Frakka valdr, ósjaldan:
háði hilmir af reiði
hinnzta sinn við lið minna,
gnýr óx at þat geira,
göll á Breiðuvöllum.

Hóf hinn hildignæfi
herjavaldr of kalda
fólkorrustu fylkir
frægr á illu dægri:
þá er hirðstjóra hjarðar
harð- hin títt of -barða
þjóð vann treg hin trauða
tjón Napóleóni.

Geystist enn, þar er æstist
öld með roðna skjöldu,

fram í feigðar rimmu
Frakka sveit hin rakka:
sverð bitu sárra firða
siklings í styr miklum,
sungu vangs um vengi
víga hnettir of þèttan.

Rennr og enn með unnum
ein, er varð að meini,
Elstr, af hreggi hölzti
hófst, Poníatóvský:
sá gekk höldr úr hildi,
hinn er styr gat vinna
meginstyrkra þar merkja
mestan, úr á lesti.

---

Endr gekk á sá sunda
sliddu drengr at lengra,
hind hóf lauks frá landi
lár hin gullna bára:
Ránar bar reið fyrir steina
Rín á barmi sínum,
leið með Lóru hlíðum
lítil skeið, hin breiða.

---

»Hingað kom að hanga
höll óbygðri trölla

drengr einn úr öngrum
Ísa hellis vísa:
njótr fann ei hins ítra
orða Gnýs, er forðum,
storðar gram, þanns stýrði
steinum, Dofra beina.«

Stóð eg á Harz, en hersa
heldr er skipt nú feldi,
horfinn er dólgs og dylgju
dvergr úr fornu bergi:
öll er úr hamra höllu
hnígin þjóð jötunsmóður,
grá varð gamla flæja
gnýpu kind í vindi.

Skildumst eg við aldin
allan í þoku skalla
hyfjabergs og hörga
hjarl að gygjar stalla:*
þangað kom áðr engi
Íslendinga, vendis
hauka heim að sækja
hellis gram í felli.

* Uppá Brocken heitir „Hexenaltar“.

*G. B.*

## Upphaf Rómverja.

---

Voru Ítalir
í árdaga
sundrlausir mjög,
en þá Satúrn ríkti:
hann af mildi
manna sonum
ár um skóp
og aldin frið.

Voru þar í landi
lýðir margir
og ótal enn
ýta þjóðir:
unz að Rómverjar
ríkjum skiptu,
feikna foldstjórar,
en það fyrnast mun-at.

Þar voru Ásónar
og Japýgar,
Siklar, Sabínar,
og Samna mengi,
Túskar, Týrrhenar,
teljum Úmbra,
lýðir latínskir
og Lofars kind.

Unz að til komu
Trójumanna
sveitir senn
af sundi víðu:
þaðan er um komin
ætt Rómverja,
ætt Rómverja,
alda drottnar.

Og í Alba
rèð öðlinga kyn,
ýtum ágætum,
Atýs og Capýs,
kunna eg báða
Capet og Próca:
allir bornir
frá Æneasi,
vini vígþjóðar,
þeim er Venus bar.

Áðr tveir komu
Týs of synir,
þeir er Róm
of ríka settu:
eyddu offriði,
og æxtu styr,
ungir ofrhugar,
en þá ylgr fæddi.

Varð af því orði,
er enginn hugði,
rimma raunfróðlig,
er Remus mælti:
böðvaðist Rómúlus
og að bróður vo,
það var eitt ættvíg
efst í heimi.

Kváðu borg standa
á Quirins fjalli,
þó þori eg eigi
þá að nefna —*
þaðan er ætt komin
öll Quiríta,
en Ramna kyn
frá Rómúlusi,
ungum ylfingi,
þeim er áss um gat.

* Smbr. Niebuhr, Röm. Gesch. I. 318.

*G. B.*